# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXV. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

Ársgjaldið er aðeins 1 dollar, og fá allir skuldlausir félagsmenn, er það borga, þetta tímarit ókeypis.

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**
Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson

# FUEL

**For Homes — Blocks — Factories**

All Popular Brands
COAL ★ COKE ★ BRIQUETTES
Stoker and Blower Coals

*STOKERS*

The WINNIPEG SUPPLY & FUEL
· COMPANY ·
LIMITED

SPICK & SPAN COAL DELIVERY

**PHONE 98-161**

**A COMPLETE FUEL and HEATING SERVICE**

**Heating Headquarters: 812 BOYD BUILDING**

# A WINNING HAND

**BUY
WAR
SAVINGS
CERTIFICATES
REGULARLY**




*Space Donated By Riedle's Brewery*

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1943

**A. Heiðursverndarar**

His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.,
Governor General of Canada
Herra Sveinn Björnsson, Ríkisstjóri Íslands.

**B. Heiðursfélagar**

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Árni Pálsson, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Watson Kirkconnell, McMasters University, Hamilton, Ont.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur, Elfros, Sask.
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Winnipeg, Man.
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona, Winnipeg
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Winnipeg
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, Ritst. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D. C.
Ásgeir Ásgeirsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Séra Runólfur Marteinsson, Vancouver, B. C.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ont.
J. J. Bíldfell, Winnipeg
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Dr. B. J. Brandson, Winnipeg, Man.
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur, Chicago, Ill.

**C. Ævifélagar**

Árni Sigurðsson, Winnipeg, Man.
Þorgils Þorgeirsson, Winnipeg, Man.
Dr. Helgi P. Briem, Consul Gen. of Iceland, New York, N. Y.

**D. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Sr. Friðr. Hallgrímsson, Dómkirkjuprestur, Reykjavík
Sr. Benjam. Kristjánsson, Syðra Laugalandi, Eyjafjarðarsýslu.
Sr. Fr. A. Friðriksson, Húsavík, S.-Þingeyjarsýslu.
Ingibjörg Sveinsson, Hjúkrunarkona, Seyðisfirði, Ísland
Stefán Vagnsson, Hjaltastöðum, Skagafjarðarsýslu.
Eggert Levy, hreppstjóri, Ósum, Húnavatnssýslu.

2. ENGLAND

Miss Ingibjörg Ólafsson, Stella Maris, Rottingdean, Sussex

3. CANADA

**Árnes, Man.**

Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Johnson
Jónas Ólafsson

**Baldur, Man.**

P. Christopherson
Ingi Helgason
J. K. Sigurðsson
Björgúlfur Sveinsson
Sigurður Antoníusson
Tryggvi Johnson

**Benalto, Alta.**

Jóhann M. Hillman

**Borden, Sask.**

Dr. Jóhannes Pálsson

**Calgary, Alta.**

Jóhann Bjarnason
Sigurður Sigurðsson
Guðmundur Björnsson
J. Ragnar Johnson

**Camp Morton, Man.**

Þorsteinn Sveinsson

**Clairmont, Alta.**

Magnús G. Guðlaugsson

**Cranberry Lake, B. C.**

Jón Sigurðsson

**Cypress River, Man.**

Jónas Anderson
Gísli Björnson
J. A. Walterson

**Elfros, Sask**

J. S. Árnason
Mrs. J. M. Bjarnason
Jón Jóhannesson
Sigurður Arngrímsson

**Frobisher, Sask.**

Hjörtur Bergsteinsson

**Galt, Ont.**

Mrs. S. J. Magnússon

**Gimli, Man.**

Sigurður Baldvinsson
Mrs. Christiana O. L. Chiswell
Friðfinnur Einarsson
Guðmundur Fjeldsted
Freeman Freemansson
Grímur S. Grímsson
Mrs. Ásdís Hinriksson
J. B. Johnson
Baldur M. Jónasson
Ól. N. Kárdal
Lestrarfél. "Gimli"
Magnús Sigurðsson frá Storð
Sigurður Sigurðsson
Thórður Thórðarson
Robert Tergesen

**Glenboro, Man.**

Páll A. Anderson
Mrs. P. A. Anderson
Sr. Egill H. Fáfnis
Jón Goodman
F. Friðriksson
Jón Helgason
Mrs. Kristj. Jóhannsson
Hans Jónsson
A. E. Johnson
G. S. Johnson
Mrs. O. S. Josephson
Guðm. Lambertsen
G. J. Oleson

**Hayland, Man.**

Mrs. Stefanía Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson

**Hamilton, Ont.**

Einar I. Svanbergson

**Hecla, Man.**

Þorsteinn Jens Pálsson

**Hnausa, Man.**

Daniel Halldórsson
Gunnar Helgason
Hildibrandur J. Hildibrandsson
Jón B. Snæfeld
V. G. Stadfeld
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal

**Holland, Man.**

Mrs. Guðlaug S. Frederickson

**Hodgson, Man.**

Rögnvaldur S. Vídal

**Húsavík, Man.**

V. B. Arason

**Keewatin, Ont.**

Jón Pálmason
Bjarni Sveinsson

**Kenora, Ont.**

Mrs. Sigríður Benson

**Langruth, Man.**

Böðvar Johnson

**Lundar, Man.**

Jón Einarsson
Vigfús Guttormsson
Ed. Hallsson
Ágúst Magnússon
Mrs. Ásta Sigurðsson
Grímúlfur Sigurðsson

**Markerville, Alta.**

Mrs. Rósa S. Benediktson

**Norwood, Man.**

Magnús Peterson

**Osland, B. C.**

Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Oak Point, Man.**

Jón Finnsson

**Oak View, Man.**

Mrs. Jóhannes Johnson
Sigurður Sigfússon

**Ottawa, Ont.**

S. W. Melsted

**Otto, Man.**

Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**

S. S. Anderson
Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Albert Thorvaldson

**Red Deer, Alta.**

Ófeigur Sigurðsson

**Reykjavík, Man.**

Mrs. I. Gíslason

**Sarnia, Ont.**

Dr. E. J. Skafel

**Saskatoon, Sask.**

Anna Matthíasson
Skúli Sigurgeirsson
Próf. T. Thorvaldson,

**Siglunes, Man.**

Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman

**Sexsmith, Alta.**

Jón Einarsson

**Smeaton, Sask.**

E. E. Vatnsdal

**Steep Rock, Man.**

Th. Gíslason
F. E. Snædal

**Stettler, Alta.**

M. Steinsson

**Swan River, Man.**

Mrs. Thórdís Samson

**Transcona, Man.**

P. S. Pétursson

**Vancouver, B. C.**

Mrs. Matth. Friðriksson
Carl Friðriksson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Kristjana T. Anderson
Magnús Elíasson
S. Guðmundsson

**Victoria, B. C.**

Christian Sivertz

**Vogar, Man.**

Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson
Lestrarfél. "Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson
John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Jónas Kr. Jónasson
Guðmundur Jónsson
Páll Jónsson
Asgar Sveistrup

**White Rock, B. C.**

Th. G. Ísdal
Mrs. Morey Block
Mrs. S. Kjartansson

**Wilkie, Sask.**

Miss Dóra Davidson

**Winnipeg, Man.**

Dr. Ág. Blöndal
Mrs. Jónína Christie
Sr. V. J. Eylands
Páll Guðmundsson
L. J. Hallgrímsson
Mrs. Jósephina Jóhannsson
Halldór Johnson
Próf. Skúli Johnson
Guðm. F. Jónasson
Wilhelm Kristjánsson
Björn Líndal
Magnús Markússon
Gunnar Norland
Dr. B. H. Olson
Mrs. J. Rafnkelsson
Jón Sigurðsson
Mrs. J. B. Skaptason
Dr. Eggert Steinþórsson
Frú Gerður Steinþórsson
Halldór M. Swan
G. S. Thorvaldson, K.C.

**Wynyard, Sask.**

Jakob J. Norman

4. BANDARÍKIN

**Arlington, Va.**

Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**

Dr. Stefán Einarsson
Johns Hopkins
University Library

**Bayside, N Y.**

E. B. Johnson

**Bellingham, Wash.**

E. M. Einarsson

**Berkeley, Calif.**

Próf. Sturla Einarsson
Steindór G. Guðmunds
Mrs. Thordís Guðmunds
Rev. S. O. Thorlákson
Bragi Freymóðsson

**Blaine, Wash.**

Thórir Björnsson
Andrew Danielsson
Sr. Albert E. Kristjánsson
Mrs. Kristín F. Líndal
A. G. Breiðfjörð

**Boston, Mass.**

Kórmakur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Valgeir Einarsson
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Kapt. G. K. Eggertsson
Cr. A. Guðjohnson
Ágúst Guðmundsson
Kapt. Grímur Hákonarson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnlaugur Illugason
Kapt. Axel Jóhannsson
Norman B. Johnson
Theódór Jónsson
Gunnlaugur Jónsson
Sigtryggur Ólafsson
Guðmundur Pálsson
Adolf Petersen
Pálmi M. Sigurðsson

# Hinn Lang Útbreiddasti Málvarningur




**Hvað LIONOIL gerir**

Berry Brothers Lionoil ver við fyrir vatni og fúa—fyrirbyggir ryð—eykur endingu og gljáa málaðs flatarmáls—er bókstaflega brúklegt til fjölda' hluta.

**Hvar LIONOIL má brúka**

Málarameistarar hafa notað Berry Brothers Lionoil svo árum skiftir, hreina eða til blöndunar. Ef þér hafið aldrei reynt Lionoil, þá borgar það sig að kynnast henni.




**GLIDDEN TITAN-O-ZINK QUICK DRYING ENAMEL**

Sérstakt Gljámál fyrir málarameistara búið til úr hinum undraverðu Titan-O-Lith litum — sérstaklega ætlað vönum málurum. — Þornar á 4 til 6 klukkutímum. Breiðist út og þekur yfirborðið undra vel. Er hreinlegt, tekur þvotti og kastar vel frá sér birtu.

## MURPHY'S UNIVERNISH

Eina lakkið sem nota má á alla hluti utan og innanhúss; á framhurðir, báta, bíla, gluggasillur, þvottastofur, gólf, útistóla, borð og þessháttar. Safnar engu ryki, þornar á 2—3 kl.tímum. Sem yfirmál þornar það á 24—36 kl.tímum og strjúka má yfir það eftir 36—48 kl.tíma.

Gallonið hylur 750—900 ferfet. **Ekki má bera það ofan á Shellac.** Ágætt á gólfdúka.

**Hið allra besta á kirkjubekki.**




**Enginn hlutur er til sem ekki má búa til lakari og selja ódýrara verði.**

**SVO ER MEÐ GOTT MÁL**

# THE WESTERN PAINT CO. LTD.

"The Painter's Supply House"

**121 Charlotte Street :: :: Winnipeg, Manitoba**

**Bottineau, N. Dak.**

Albert Árnason
Ásmundur Benson
Óskar B. Benson

**Buena Park, Calif.**

Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**

Próf. Francis P. Magoun, Harvard Coll. Library

**Camp Croroder, Mo.**

Chaplain G. B. Guðmundsson

**Chicago, Ill**

Árni Helgason
S. Árnason

**Charlottesville, Va.**

Próf. Frederic T. Wood

**Davis, Calif.**

Dr. V. S. Ásmundsson

**Detroit, Mich.**

Hon. Frederick H. Fljózdal

**Duluth, Minn.**

Chris Johnson

**Fargo, N. Dak.**

Próf. F. W. Thordarson

**Gloucester, Mass.**

Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grafton, N. Dak.**

Mrs. S. Eastman

**Grand Forks, N. Dak.**

University Library

**Hallson, N. Dak.**

Árni J. Jóhannsson

**Huntington Park, Calif.**

Dr. Paul V. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Ivanhoe, Minn.**

Peter H. Foss
Bjarni Guðmundsson

**Jackson, Mich.**

Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**

Einar Johnson

**Lincoln, Nebr.**

Próf. Joseph Alexis

**Minneapolis, Minn.**

Gunnar B. Björnsson
Hjálmar Björnsson
K. Valdimar Björnsson
Sr. David Gulbrandson

**Minneota, Minn.**

María G. Árnason
Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson
J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
Bjarni Jones
John A. Johnson

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



TUTTUGASTI OG FIMTI ÁRGANGUR, 1943

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1944

# EFNISYFIRLIT



**His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.,**
Governor General of Canada — Honorary Patron



**Herra Sveinn Björnsson,**
Ríkisstjóri Íslands

Heiðursverndari Þjóðræknisfél. Íslendinga

## Þjóðræknisfélagið 25 ára

Eftir Einar P. Jónsson

---

Oft þó lægi leið í fangið,
lúnum yrði gangan stirð,
brenna eftir aldarfjórðung
eldar glatt við þessa hirð;
eldar, sem í útlegðinni
okkar brýndu vökumenn
til að vernda mál og menning —
merki þeirra stendur enn!

Enginn verður öfundsmaður
örkvisans, er svíkur lit;
hans, sem skifti á arfleifð andans
erlent fyrir magavit.
Glímt þó sé við ofurefli
aldrei siglir neinn í strand,
sem með hetjutápi treystir
trúna á guð og föðurland.

Góðra stofna gæfa hefir
gildi mest á vorri jörð;
sér hún skapar eigin eilífð,
ást til guðs og þakkargjörð.

Stofnsins ást er lögmál lífsins,
lúta verður sérhver því,
eða detta dauðamerktur
dæmdra sálna prísund í.

Andlegt landnám okkar þjóðar
enn er hennar mesta verk;
þar á tungan töframáttinn,
tónaklökk og reginsterk.
Ennþá tigna Íslendingar
Egils djúpa sorgaróð;
ennþá skapa skáld á Fróni
skírnarsálma og banaljóð.

Hópur trúrra Birkibeina
ber sitt merki hátt í dag!
Þessi fylking þétt á velli
þyrlast ei við rammaslag.
Glatið eigi göfgi málsins
góðar konur, vaskir menn.
Þó að liggi leið á brattann,
langt er fram til nætur enn.



# Aldarfjórðungsafmæli Þjóðræknisfélagsins

Eftir prófessor Richard Beck

*Aðdragandi og stofnun*

Þjóðræknisstarfsemi Íslendinga í Vesturheimi á sér langa sögu að baki, því að í reyndinni er hún jafngömul landnámi þeirra þarlendis; má sérstaklega rekja rætur hennar til hátíðarhalds og félagslegra samtaka Íslendinga í Milwaukee-borg í Wisconsin í Bandaríkjunum árið 1874. Þetta ár var, eins og kunnug er, eitt af allra merkustu og mikilvægustu tímamótum, einn af hátindunum, í sögu hinnar íslensku þjóðar. Þá var hátíðlegt haldið þúsund ára afmæli Íslandsbygðar, og í tilefni af þeim mikilsverða atburði gaf Danakonungur, að áskorun Alþingis, Íslandi all-frjálslynda stjórnarskrá. Var þar um að ræða glæsilega sigurvinning í stjórnfrelsis-baráttu þjóðarinnar og grundvöllurinn lagður að nýju framfaratímabili í sögu hennar. Fögnuðurinn var því almennur um land alt, og bárust áhrifin af þeirri hrifningar og fagnaðaröldu, sem þá gekk yfir landið, vestur um haf og vöktu bergmál í hugum þeirra Íslendinga, er flutt höfðu búferlum til Vesturálfu, en þeir voru þá enn næsta fámennur flokkur. Var aðal-bækistöð þeirra í Milwaukee-borg.

Þó ekki væri stór hópur þeirra, vildu þeir eigi vera eftirbátar landa sinna heimafyrir í því að minnast þúsund ára afmælis bygðar Íslands, og gerðu það með prýði, sjálfum sér og landi sínu til sæmdar, enda var þar mannval gott, þótt ekki væri margmenninu til að dreifa. En hér var eigi aðeins um að ræða fyrsta íslenskan þjóðminningardag í Vesturheimi. Við þetta tækifæri var einnig haldin hin fyrsta íslenska messugerð vestan hafs, er séra Jón Bjarnason stýrði. Flutti hann afar tilþrifamikla og máttuga hátíðarprédikun, þar sem djúp ættjarðarást, trúarhiti og málsnild haldast í hendur. Verða menn langt að leita að kröftugri þjóðernishvöt, en þar er að finna. En þeim, sem fræðast vilja frekar um þessa söguríku þjóðminningarhátíð, má vísa til hinnar prýðilegu ritgerðar um það efni eftir dr. Rögnvald Pétursson, sem kom út í *Tímariti* þessu 1933; er þar bæði að finna frásögn séra Jóns um hátíðarhaldið og ítarlegan útdrátt úr hinni kröftugu og fögru ræðu hans.

Loks er enn eitt merkisatriði í sambandi við þessa fyrstu þjóðhátíð Íslendinga vestan hafs. Jafnhliða henni stofnuðu þeir félagsskap með sér, er þeir nefndu "Íslendinga-félag í Ameríku", og voru lög þess í ellefu greinum samþykt á fundi Íslendinga í Milwaukee á sjálfan þjóðhátíðardaginn. En samkvæmt 2. málsgrein laganna er þetta höfuðmarkmið félagsins:

"Sá er tilgangur félagsins, að varðveita og efla íslenskt þjóðerni meðal Íslendinga í heimsálfu þessari og hinn frjálsa framfarar og menningar-

anda, er á öllum öldum Íslandssögu hefir verið þjóð vorri til svo mikils sóma, en sporna við öllu því í andlegum og veraldlegum efnum, er leiðir til ins gagnstæða.

Sér í lagi er það tilgangur félagsins að vera sambands-liður milli Íslendinga á ýmsum stöðum í álfu þessari og á milli Íslendinga hér vestra og landa vorra heima á Íslandi eða í öðrum löndum."

Hér var því bæði um þjóðræknislegt og allsherjar Íslendingafélag að ræða, eins og fram kemur glögglega í 11. grein laga þess: "Félagið kýs sér fulltrúa svo marga og á svo mörgum stöðum, sem nauðsynlegt þykir. Þessa menn velur stjórn félagsins. Fulltrúar skýri stjórninni einu sinni á ári eða oftar frá ástandi allra Íslendinga í hvers eins bygðarlagi."1)

Vagga íslenskrar þjóðræknisstarfsemi vestan hafs, sem síðan hefir í ýmsum myndum lifað og blómgast, við misjöfn kjör eins og aðrar menningarlegar hreyfingar, stóð því í Milwaukee-borg fyrir 70 árum síðan.

Íslendingafélagið í Milwaukee varð þó eigi langlíft, og olli því ekki síst burtför leiðtoga félagsins og annara Íslendinga þaðan úr borg bæði til Minnesota og Nýja Íslands. Fjarri fór þó, að hugsjónin sem stóð að baki þeim félagsskap, hugsjónin um að varðveita íslenska tungu og þjóðerni, hyrfi þar með úr sögunni. Hún átti sér, góðu heilli, altof djúpar rætur í hugum manna til þess að geta horfið þeim úr minni, og hún braust fram í nýrri mynd í hinum ýmsu bygðarlögum þeirra. Í íslensku nýlendunni í Minnesota hófst mjög snemma á árum félagsskapur mjög í anda Íslendingafélagsins í Milwaukee, og lá mönnum þungt á hjarta, hvernig þeir gætu "best varðveitt menning og sóma sín á meðal."

Þá er ekki síður merkileg myndun hinnar sérstöku stjórnarskipunar fyrir Nýja Ísland á landnámsárunum þar. Var þar ekki um annað eða minna að ræða heldur en íslenskt "ríki í ríkinu"; og fyrirmyndarinnar er ekki langt að leita; eins og bent hefir verið á, er hana að finna í þeirra sveita-stjórnarskipun, sem þá var við lýði á Íslandi. Stjórnarskipun Nýja Íslands hvíldi á ramm-íslenskum grundvelli; hún var sprottin upp af sterkum sjálfstæðishug og vakandi þjóðræknismeðvitund nýlendumanna; hún var með öðrum orðum öflug og ákveðin þjóðræknishreyfing. Henni var ætlað að stuðla að því, að nýlendan yrði "tungu vorrar griðland" og "friðland hins forna fjársjóðs vors í bögu og sögu þess horfna", eins og Guttormur J. Guttormsson skáld orðaði það í hinu sonarlega og fagra kvæði til hennar, "Sveitin mín".

Eigi höfðu Íslendingar heldur lengi verið í Winnipeg, þegar þeir stofnuðu með sér Íslendingafélag, haustið 1877. Hér gætir aftur beint áhrifanna frá Milwaukee, því að þeir menn, sem einkum gengust fyrir félagsstofnun þessari, voru þaðan komnir. Tilgangur félags þessa, eins

1) Hér hefir fylgt verið sjálfu frumriti laga félagsins, sem er með eiginhendi Jóns Ólafssonar skálds, er var skrifari þess, en séra Jón Bjarnason var forseti þess. Er frumrit laganna nú í vörslum Þjóðræknisfélagsins, þangað komið úr dánarbúi landnámshöfðingjans Sigtryggs Jónassonar.

og fram kemur í lögum þess, var og hinn sami sem markmið hins fyrsta Íslendingafélags þeirra Milwaukee-manna. Síðar var félag þetta nefnt "Framfarafélag Íslendinga í Vesturheimi"; starfaði það með miklu fjöri um tíu ára skeið og lét mörg mál til sín taka.[1]

Eru félagssamtök þau, er að framan eru talin, hér nefnd sem dæmi þess, að þjóðræknisstarfsemi í einhverri mynd má teljast jafnaldra landnámi Íslendinga hérna megin hafsins. Allur þorri þeirra, sem á annað borð hafa nokkuð verulega hugsað um hlutskifti sitt og sinna og framtíð í landi hér, hafa unað illa þeirra tilhugsun, að þeir hyrfi sem dropi í sjóinn í þjóða-hafinu hér í álfu; þeir hafa því viljað standa saman um það, að þeir gætu haldið andlegu sjálfstæði sínu, tungu og þjóðerni í lengstu lög. Kjörorð Fjölnismanna hafa verið skorin á skjöld þeirra: "Vér viljum vernda mál vort og þjóðerni". Þessi þjóðræknis- og þjóðræktarmeðvitund, hert í eldi 70 ára reynslu í landi hér, í mótbyr eigi síður en meðbyr, fann sér öfluga framrás í stofnun Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi fyrir aldarfjórðungi síðan.

Skal nú horfið að þeim atburði, en aðeins stiklað á stærstu steinum, því að tildrög stofnunar félagsins voru glögglega rakin og nákvæmlega í ritgerðinni "Þjóðræknisfélagið 20 ára," eftir dr. Rögnvald Pétursson, einn af helstu forgöngumönnum að myndun félagsins og fyrsta forseta þess. Birtist ritgerð þessi hér í ritinu 1939. Þar er einnig ítarlega lýst sjálfri stofnun félagsins og greint frá því, hvernig umhorfs var í þjóðfélaginu bæði í Canada og Bandaríkjunum, er grundvöllurinn var lagður að félagsstofnuninni. En eðlilega setti hið þjóðfélagslega ástand nokkurn svip á félagsmyndunina og hafði áhrif á afstöðu manna til þess. En á þeim styrjaldarárum lá í lofti beggja megin landamæranna andúð og tortryggni gagnvart öllu því, er "útlent" var talið, og átti sú tilfinning sér þó miklu lengri sögu. Er ekki erfitt að skilja, hversvegna mörgum Íslendingum, sem báru í brjósti djúpstæða rækt til þjóðar sinnar og menningar, fundust þær ástæður knýja þá til samtaka um varðveislu menningararfða sinna; en á hinn bóginn er það jafn skiljanlegt, að varhugavert þótti að leggja út í slíka félagsmyndun meðan á stríðinu stóð; enda dróst félagsstofnunin af þeim ástæðum.

Var fyrsti fundur til að ræða um stofnun íslensks Þjóðræknisfélags í Winnipeg haldinn að heimili Árna Eggertssonar 10. jan. 1917. Vegna stríðsins varð ekkert af frekari framkvæmdum fyr en haustið 1918, er haldin var fundur í samkomuhúsi Skjaldborgar safnaðar, og tók nú að færast skriður á málið.

Vegna samkomubanns var næsti fundur þó eigi haldinn fyr en eftir áramót, í samkomuhúsi Goodtempl-

---

1) Um myndun félags þessa og stefnu, sjá ritgerð séra Friðriks J. Bergmann, "Saga íslensku nýlendunnar í bænum Winnipeg", **Almanak Ó. S. Thorgeirssonar**, 1903. En um áhrifin frá Íslendingafélaginu í Milwaukee er mikinn fróðleik að finna í kaflanum "Félagsandinn frá Milwaukee" í 2. bindi **Sögu Íslendinga í Vesturheimi** eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson, Winnipeg, 1943.

ara 7. jan. 1919. Eftir ítarlegar umræður um málið, var samþykt svohljóðandi tillaga þeirra Jóns J. Bíldfell og Ásmundar P. Jóhannsson:

"Að kosin sé 30 manna nefnd, er vinna skuli að undirbúningi þessarar fyrirhuguðu félagsstofnunar fram til almenns fundar. Skal nefndin semja ávarp, er sendast skal mönnum í hinum ýmsu bygðarlögum vorum hér í álfu, og með því sé á þá skorað að gangast fyrir fundarhaldi, hver í sinni bygð, og með fundar atkvæði leita álits þeirra, sem viðstaddir eru, um stofnun þjóðernisfélags meðal Íslendinga í Vesturheimi. Falli samþyktir með, skulu kosnir fulltrúar á fundum þessum, er mæta skulu á almennum fundi í Winnipeg, er ræða skal um stofnun, stefnu og fyrirkomulag þessa félags, og skal sá almenni fundur vera haldinn svo fljótt, sem ástæður leyfa."

Eftirfarandi menn og konur, úr hinum ýmsu félögum og flokkum Íslendinga í Winnipeg, voru valin í umrædda undirbúningsnefnd: Séra Runólfur Marteinsson, Jón J. Bíldfell, O. T. Johnson, dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Ó. S. Thorgeirsson, séra Björn B. Jónsson, Magnús Paulson, Sigurbjörn Sigurjónsson, Hjálmar A. Bergman, Líndal Hallgrímsson, séra Rögnv. Pétursson, Thorsteinn S. Borgfjörð, Kristján J. Austmann, Gunnl. Jóhannsson, Hjálmar Gíslason, séra Guðm. Árnason, dr. Jón Árnason, Einar Páll Jónsson, Mrs. F. Johnson, Mrs. J. Gottskálksson, Mrs. Ingibjörg Goodmundson, Mrs. Th. Oddsson, Mrs. J. B. Skaptason, Mrs. T. H. Johnson, Thórður Johnson, Friðrik Sveinsson, S. D. B. Stephansson, Ásm. P. Jóhannsson, Hon. Thomas H. Johnson og dr. B. J. Brandson.

Tók nefndin þegar til starfa, en formaður hennar var séra Runólfur Marteinsson, ritari séra Guðmundur Árnason og féhirðir Ásm. P. Jóhannsson. Sendi hún bráðlega, undirritað af öllu nefndarfólki, ítarlegt og efnismikið "Ávarp til Íslendinga í Vesturheimi", þar sem leidd eru gild rök að nauðsyn og nytsemd slíks félags og hér var um að ræða. Var ávarp þetta dagsett í Winnipeg 27. jan. 1919, og birt í báðum íslensku vikublöðunum (*Heimskringla* 12. febr., *Lögberg* 13. febr.).

Voru undirtektir almennings ágætar og hófst stofnfundur Þjóðræknisfélagsins, eins og ákveðið hafði verið, að kveldi þriðjudagsins 25. mars 1919 í samkomuhúsi Good-Templara í Winnipeg og stóð næstu tvo daga.

Af hálfu Winnipeg Íslendinga voru þessu fulltrúar kosnir til að mæta á stofnfundinum: Jón J. Bíldfell, séra Runólfur Marteinsson, séra Rögnv. Pétursson, Sigurbj. Sigurjónsson, O. T. Johnson, S. D. B. Stephansson, K. J. Austmann, séra Guðm. Árnason, Ásm. P. Jóhannsson, Friðrik Sveinsson, Einar P. Jónsson, Hannes Pétursson, Mrs. F. Johnson, dr. Jón Árnason, og Ó. S. Thorgeirsson; en varamenn voru: Hjálmar Gíslason, J. J. Vopni, dr. Sig. Júl. Jóhannesson, dr. Jón Stefánsson og Páll S. Pálsson, er allir skyldu einnig eiga sæti á þinginu.

Er stofnfundurinn hófst, voru mættir 32 erindsrekar frá hinum ýmsu bygðarlögum, auk fulltrúanna

## Fyrsta stjórnarnefnd félagsins



1. Séra Rögnvaldur Pétursson, forseti; 2. Jón J. Bíldfell, vara-forseti; 3. Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, ritari; 4. Ásgeir I. Blöndahl, vara-ritari; 5. Ásm. P. Jóhannsson, féhirðir; 6. Séra Albert E. Kristjánsson, vara-féhirðir; 7. S. D. B. Stephanson, fjármálaritari; 8. Stefán Einarsson, vara-fjármálaritari; 9. Sigurbjörn Sigurjónsson, skjalavörður.

frá Winnipeg, og næsta dag bættust margir fleiri í hópinn, svo að alls sóttu þing þetta fulltrúar frá 22 stöðum í bygðum Íslendinga, úr N. Dakota, Saskatchewan og Manitoba.

Fundarstjóri var kosinn Jón J. Bíldfell og skrifari séra Guðm. Árnason. Var samþykt í einu hljóði, eftir ítarlegar umræður, að stofna allsherjar Þjóðræknisfélag (Þjóðernisfélag) Íslendinga í Vesturheimi. Á stofnfundinum var að vísu samþykt að nefna félagsskapinn "Íslendingafélag", en því nafni var litlu síðar breytt í núverandi heiti hans.

Samning laga og stefnuskrár félagsins, og samþykt þeirra, var vitanlega höfuðverkefni stofnfundarins og hlutu þessir kosningu í tíu manna nefnd til þess að gera uppkast að lögum fyrir félagið: séra Rögnv. Pétursson, séra K. K. Ólafsson, Thorlákur Thorfinnsson, séra Jón Jónsson, dr. Jón Árnason, Ásgeir I. Blöndahl, Jóhannes Einarsson, Stefán Einarsson, S. D. B. Stephansson og Philip Johnson. Urðu að vonum miklar umræður um lög félagsins og fyrirkomulag, en að lokum voru þau samþykt að miklu leyti í núverandi mynd sinni, þó að nokkrar breytingar hafi verið gerðar á þeim.

Þessir voru kjörnir fyrstu embættismenn félagsins:

Forseti: Séra Rögnv. Pétursson.
Vara-forseti: Jón J. Bíldfell.
Ritari: Dr. Sig. Júl. Jóhannesson.
Vara-ritari: Ásgeir I. Blöndahl.
Gjaldkeri: Ásm. P. Jóhannsson.
Vara-gjaldkeri: Séra Albert E. Kristjánsson.
Fjármálaritari: S. D. B. Stephansson.
Vara-fjármálaritari: Stefán Einarsson.
Skjalavörður: Sigurbj. Sigurjónsson.
Yfirskoðunarmenn reikninga: Einar P. Jónsson og Hannes Pétursson.[1]

*Hin þríþætta stefnuskrá*

Hvert var svo markmið þessa allsherjar þjóðræknislega félagsskapar Íslendinga í Vesturheimi? Samkvæmt 2. grein laga félagsins um tilgang þess, er samþykt var á stofnfundi félagsins og enn er í gildi, er þetta hið þríþætta meginverkefni þess.

1. Að stuðla að því af fremsta megni, að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Ber fyrsta málsgrein þessarar lagagreinar það með sér, að stofnendur félagsins hafa talið það mikilsvert, að afstaða félagsmanna til síns nýja heimalands væri tekin fram svo skýrt og skorinort, að eigi yrði þar um vilst; og skipa þeir henni réttilega og viturlega öndvegisessinn í stefnu og starfi þess. Kennir hér ekki ólíklega einhverra áhrifa frá ráðandi hugsunarhætti í Canada og Bandaríkjunum á stríðsárunum, eins og fyr var vikið að. Aðallega lýsir sér þó hér sú þegnhollusta, sem frá fyrstu

1) Um stofnun félagsins vísast annars til fyrnefndrar ritgerðar dr. Rögnv. Péturssonar.

tíð hefir alment talin verið eitt af helstu og rótgrónustu einkennum Íslendinga vestan hafs. En hér býr samt meira undir eins og fram kemur í skilgreiningu dr. Rögnv. Pétursson á þessari lagagrein í inngangi hans að fyrsta árgangi *Tímarits* félagsins (1919), en þar farast honum þannig orð:

"Flestum mun skiljast, að til þess að verða mestur og bestur borgari, er eigi nóg, að taka eingöngu líkamlegum framförum, að verða vinnumaður góður, þrifnaðar búmaður eða jafnvel efnamaður. Það er eigi nóg að vera löghlýðinn, semja sig eftir lifnaðarháttum einnar þjóðar eða staðháttum eins lands, heldur þarf líka að taka sem mestum vitsmunalegum og andlegum þroska og afla sér sem mestrar og sannastrar þekkingar. Réttlætismeðvitundin þarf að vera vel vakandi og skilningurinn glöggur og skýr. Hið fyrra ber að gjöra, en hið síðara eigi ógjört að láta. Fyrsta sporið í áttina til þess að geta tekið þessum framförum, er að rannsaka og læra að þekkja sjálfan sig. Hefir maðurinn þá að mörgu leyti örlög sín í eigin hendi. En sá fær aldrei fullkomlega þekt sjálfan sig, er eigi skilur eða þekkir neitt til sögu þeirrar þjóðar, sem hann er kominn af. Þetta er fyllilega viðurkent, sem sýnir sig í því, að hvarvetna meðal mentaðra þjóða er saga og bókmentir þjóðanna lagt til grundvallar sjálfri mentuninni, við hinar æðri skólastofnanir hennar. Fyrst þetta er nú svo, þá leiðir það sem af sjálfu sér, að til þess að Íslendingar fái orðið, eigi eingöngu, sem bestir borgar í hérlendu þjóðlífi, heldur sem fullkomnastir menn, beri þeim að leggja stund á eigin tungu og bókvísi samhliða hérlendri mentun."

Í hinni snjöllu ritgerð sinni "Þjóðararfur og þjóðrækni" í sama árgangi *Tímaritsins* (og hún er jafn tímabær enn og þá er hún var rituð) rökræðir séra Guttormur Guttormsson þjóðræknismálið ítarlega frá sama sjónarmiði, frá þeirri hliðinni, "sem veit að skyldum vorum við þetta land", og kemst meðal annars þannig að orði:

"Einhvers konar íhald er lífsnauðsynlegt öllu því, sem gott er og dýrmætt í mannssálinni. Þú getur ekki látið eignir andans ganga hrossakaupum. Til eigna þeirra telst það, sem kalla mætti þjóðarreynslu; það er lífsspeki sérkennileg, sem hver þjóð hefir með eigin kröftum unnið úr eigin lífskjörum sínum. Það er afar erfitt að varpa þeim arfi frá sér, og taka sér annan, sem svo verði manni jafn-mikils virði. Ást og trygð eru með sama markinu brendar; þær eru vanafastar og heimilisræknar. Rekir þú þær á flæking, þá deyja þær. Eins er um hugsjónir og menningarsérkenni. Þú getur ekki svift þeim eignum til, né haft þær í skifta-bralli, þér að skaðlausu.

Það er því auðsætt, að of skjótar þjóðernis-sviftingar eru skaði þessu landi, fremur en ábati. Ef vér vörpum frá oss ást vorri til Íslands og Íslendinga, þá gengur oss ver á eftir að elska nokkurt land, nokkra þjóð, og verðum svo fyrir bragðið kaldlyndari gagnvart kjörlandinu. Ef vér megum ekki hlúa að frændrækninni, þá eru litlar líkur til þess, að vér verðum ástúðlegri við vandalausa. Ef vér



**DR. RÖGNV. PÉTURSSON**
**Forseti 1919—20 og 1936—39**
**Ritstjóri Tímaritsins**

eigum að afrækja þenna andans auð, sem safnast hefir og geymst í vorum eigin ættum, þá verður býsna lítið andríkið, sem vér leggjum fram til uppbyggingar hérlendu hugsanalífi. Hljótum, í einu orði sagt, að rýra manngildi vort með slíkri afneitun vors eigin betra manns, og verðum lakari Ameríkumenn fyrir bragðið, en ekki betri."

Fjöldamargar aðrar ritgerðir í *Tímaritinu* hafa síðan fjallað um þessa hlið þjóðræknismálsins, beint eða óbeint, t. d. hin ágæta grein séra Guðmundar Árnasonar "Tvenn sambönd" (1922) og hin athyglisverða og íturhugsaða grein séra Ragnars E. Kvaran "Risar og engisprettur" (1926). Forsetar félagsins hafa einnig sem von er til ósjaldan vikið að þessu grundvallaratriði í stefnu félagsins og starfi, í ræðum sínum við setningu ársþings þess. Vil eg í því sambandi, til þess að sýna samhengið í stefnu félagsins að þessu leyti, leyfa mér að vitna til eftirfarandi orða úr forsetaskýrslu minni á þjóðræknisþinginu fyrir tveim árum síðan.

"Varðveisla vorrar menningarlegu arfleifðar, frelsisástar og framsóknaranda kynstofns vors, gerir oss áreiðanlega glöggskygnari á hvað í húfi er í því úrslitastríði, sem einræðisandinn og lýðræðishugsjónin heyja nú í heimi vorum. Slík varðveisla gerir oss að sama skapi fúsari, til þess, að verða örlátlega og hreystilega við hinum þungu, vaxandi kvöðum, sem þegnleg skylda vor leggur oss á herðar í sambandi við stríðssóknina af hálfu þeirra lýðræðisþjóða, sem vér eigum því láni að fagna að vera hluti af. Frelsið hefir jafnan verið öllum sönnum Íslendingum dýrmætast allra hluta, og mun svo enn reynast."

Með þátttöku í opinberum hátíðahöldum, svo sem fimtíu ára afmæli Winnipegborgar og sextíu ára afmæli hins canadiska ríkis, og með nauðsynlegum fjárframlögum þar að lútandi, hefir félagið ennfremur sýnt hug sinn til þessa lands og þjóðar. Ber og að geta þess, að þátttaka Íslendinga í þessum hátíðahöldum tókst með þeim hætti, að almenna eftirtekt vakti og bar, samkvæmt úrskurði dómendanna, mjög af öðru, sem þar fór fram, enda hlutu þeir fyrstu verðlaun í bæði skiftin.

Á síðustu árum hefir félagið einnig sýnt þegnhollustu sína með því að styrkja eftir föngum þátttöku Canada í stríðssókninni. Einnig átti það hlut að því (1941), að Íslendingar

tóku þátt í fjölþættri og merkilegri samkomu í Winnipeg, er nefndist "Salute to Britain", og fulltrúar frá hinum ýmsu þjóðarbrotum í Canada stóðu að.

Þörf gerist eigi að skilgreina nánar hinar tvær málsgreinar stefnuskrár félagsins; þær eru í rauninni útfærsla á aðaltilgangi þess, ræktun íslenskrar þjóðar í þessari álfu, eins og séra Ragnar E. Kvaran orðaði það heppilega í fyrnefndri ritgerð sinni, því að þær leggja réttilega áherslu á það, að því marki verði aðeins náð með varðveislu þeirra menningarverðmæta og þess hugsjónaarfs, sem vér Íslendingar höfum að erfðum hlotið, og með því að standa í nánu og lífrænu sambandi við uppsprettu og yngingarlind þeirra erfða, heimalandið og heimaþjóðina. "Rótarslitinn visnar vísir" kvað Grímur skáld Thomsen, en þau djúpu sannindi hvað snertir einstaklinginn hafði langdvöl utanlands brent inn í huga hans.

Starf Þjóðræknisfélagsins liðinn aldarfjórðung hefir síðan grundvallast á þessum þrem meginatriðum stefnuskrárinnar, en í rauninni orðið drjúgum margþættara, eins og starfsaga þess sýnir, þó tiltölulega verði hér að fara fljótt yfir sögu.

*Útbreiðslustarf og deildir*

Frá upphafi vega hefir útbreiðslustarfið eðlilega verið eitt af aðalmálum félagsins, því að á þeirri viðleitni og árangri hennar hvílir heill þess, þróun og framtíð. Hefir að þessu marki eftir ástæðum verið unnið árlega með fyrirlestraferðum og heimsóknum víðsvegar í bygðum Íslendinga af hálfu stjórnarnefndar félagsins eða annara fulltrúa í umboði hennar. Löngum hefir þó þetta starf að mjög miklu leyti lent á herðum forseta félagsins, þó að aðrir embættismenn, svo sem vara-forseti, ritari og féhirðir, hafi einnig lagt sinn drjúga skerf til þess starfs.



SÉRA JÓNAS A. SIGURÐSSON
Forseti 1921—22 og 1925—26—29—30—33

Þar sem félagið hefir frá byrjun á aðra hönd samanstaðið af einstökum félagsmönnum víðsvegar um álfuna, en á hinn bóginn af deildum í bygðum Íslendinga, hefir útbreiðslustarfið miðast við aukning hvorttveggja, hvar sem því yrði við komið. Hefir hópur einstakra félaga jafnan verið allfjölmennur, og einhverja slíka að finna víðasthvar þar sem Íslendingar hafa sest að í bygðum og bæjum. Er það ánægjulegt til frásagnar, að á síðari árum hefir einstökum félagsmönnum farið fjölgandi og að þeirra á meðal eru margir mentamenn ís-

lenskir og jafnframt lærdómsmenn af erlendum stofni, er leggja stund á íslensk fræði.

Kemur þá að stofnun og starfi deilda félagsins, og má það öllum augljóst vera, hverjar meginstoðir þær eru starfsemi félagsins í heild sinni. Var það því eitt fyrsta verk stjórnarnefndar félagsins, eftir að það hafði stofnsett verið, að vinna að stofnun deilda. Deildin "Frón" í Winnipeg var fyrsta deildin, sem stofnuð var 2. maí 1919, með 120 félögum; er hún enn, eins og vænta má, fjölmennasta deild félagsins og er félagatal hennar nú nálægt 200. Sama ár var stofnuð deildin "Fjallkonan" í Wynyard, Sask., er lifir enn góðu lífi.

Sama máli gegnir um deildina "Ísland" í Brown, Man., er stofnuð var snemma árs 1921. Það ár var einnig stofnsett deildin "Harpa" í Winnipegosis, Man., og var vel starfandi um allmörg ár, en er nú lögð niður.

Árið 1923 hefir auðsjáanlega verið ötullega unnið að deildastofnun, því að eigi voru færri en þrjár nýjar deildir myndaðar það ár, að Gimli og í Selkirk, Man., og í Churchbridge, Sask.; eigi varð hin fyrstnefnda þó langlíf, en hinar tvær deildirnar, "Brúin" og "Snæfell", hafa óslitið haldið uppi starfi sínu. Næsta ár var deild stofnuð í Foam Lake, er starfandi var um hríð, en er nú fyrir æði mörgum árum horfin úr sögunni.

Deildin "Iðunn" í Leslie, Sask., var mynduð árið 1926 og er hún enn vel vakandi. Um þær mundir var og starfandi allfjölmenn deild í Riverton, Man., er eigi mun þó hafa átt sér langan aldur að því sinni.

Varð nú um nokkur ár hlé á stofnun deilda, þó unnið væri stöðugt eftir föngum að útbreiðslumálum hvað snerti öflun einstakra félagsmanna, og jafnan með nokkrum árangri, þrátt fyrir andvíga aðstöðu að ýmsu leyti á þessu tímabili (um og eftir 1930), svo sem erfitt árferði, einkum eftir að kreppan alræmda þrengdi skóinn æ harðar að almenningi á öllum starfssviðum. Á þessum árum (fyrir og um 1930) fór einnig mikið af tíma og starfskröftum stjórnarnefndarinnar í undirbúning heimfararinnar af hálfu félagsins á Alþingishátíðina, er útheimti mikið og margþætt verk, ferðalög og fundarhöld víðsvegar; samhliða þeim ferðum var þó jafnframt unnið að útbreiðslumálum félagsins.

Í sambandi við útbreiðslumálin á umræddu tímabili má jafnframt sérstaklega geta þess, að íþróttafélagið "Fálkinn" í Winnipeg gekk inn í félagið á ársþingi þess 1932 og að á þjóðræknisþinginu næsta ár gerðist Íslendingafélagið "Vísir" í Chicago sambandsdeild í Þjóðræknisfélaginu, og var með því stigið merkilegt spor í þá átt, að sameina um málstað félagsins hópa Íslendinga, er í fjarlægð búa frá höfuðstöðvum þess. Hefir síðan verið siglt all ötullega í það kjölfar, sem enn mun sagt verða.

Má og segja, að vel hafi yfirleitt orðið ágengt í útbreiðslumálum hin síðari ár, bæði fyrir atbeina stjórnarnefndar félagsins og annara velunnara þess. Árið 1937 var fjölmenn deild, "Báran", stofnuð að Mountain og Garðar í Norður Dakota. Tveim árum síðar voru stofnaðar deildirnar "Ísafold" í Riverton og "Esjan" í Ár-

borg, Man., báðar allfjölmennar. Árið 1940 gekk söngfélagið "Harpa" í Bellingham, Washington, inn í félagið sem sambandsdeild, og hófst með inngöngu þess landnám félagsins á Kyrrahafsströndinni, að því er deildir snertir vestur þar.

Árið 1941 gerðist það helst í útbreiðslumálum, að lestrarfélagið í Árborg sameinaðist deildinni þar, og jók það að mun félagatölu hennar. Næsta ár jókst félaginu drjúgum liðsauki úr ýmsum áttum. Var á því sumri stofnuð all-mannmörg þjóðræknisdeild, "Skjaldborg", í Mikley, Man. Einnig gerðust Íslendingafélagið í New York borg og lestrarfélagið "Vestri" í Seattle, Washington, sambandsdeildir í félaginu, og brúaði félagið með upptöku þeirra álfuna þvera. Allstór hópur Íslendinga í Boston, Mass., gekk einnig inn í félagið á umræddu ári.

Árið sem leið (1943) hefir félagið numið land með deildastofnun í tveim höfuðbygðum Íslendinga vestan hafs, að Gimli með stofnun mjög fjölmennrar deildar og í Argyle, Man., með stofnun annarar deildar einnig all-fjölmennrar.

Þráfaldlega hafði verið vakið máls á því á ársþingum Þjóðræknisfélagsins bæði af forsetum þess og öðrum, að vaxandi nauðsyn væri á því, að nánari og félagsleg samvinna kæmist á milli Þjóðræknisfélagsins og yngri kynslóðar Íslendinga í landi hér; einnig hafði stjórnarnefnd félagsins fjallað um mál þetta milli þinga. Eigi var það samt fyr en rétt fyrir Þjóðræknisþingið 1938, að félagsskapur Yngri Íslendinga, eins og þeir nefndu sig ("Young Icelanders"), var formlega myndaður, og gerðist félag þeirra sambandsdeild Þjóðræknisfélagsins þá á þinginu. Seinna tók félag þetta upp nafnið "The Junior Icelandic League", en nefnist nú "The Icelandic Canadian Club" og er allfjölment. Fundir þess fara fram á ensku máli, vegna þess, að félagsfólki er yfirleitt sú tunga tamari, en leikur þó hugur á að slitna ekki úr tengslum við kynstofn sinn og leggja nokkra rækt við íslenskar menningarerfðir. Fyrsti forseti félagsins var B. Edvald Olson, en núverandi forseti þess er Árni G. Eggertson, K.C., lögfræðingur.

Félagið hefir haft með höndum ýmisleg samkomuhöld og nokkra íþróttastarfsemi. Það hefir einnig tekið upp á starfsskrá sína að minnast Fullveldisdags Íslands, 1. des., árlega með samkomuhaldi. Síðan í október 1942 hefir félagið gefið út ársfjórðungsritið *The Icelandic Canadian*. Aðal-ritstjóri þess er skáldkonan Mrs. Laura Goodman Salverson, en ráðunautur ritstjórnarinnar er W. J. Lindal, K.C., héraðsdómari. Hefir ritið flutt fróðlegt og læsilegt efni bæði í bundnu og óbundnu máli; einkum hafa síðustu hefti þess yfirleitt náð vel tilgangi sínum, og hlotið maklega viðurkenningu. Það hefir einnig vakið athygli og útbreiðsla þess farið vaxandi.

Hinar eldri deildir félagsins hafa einnig á síðari árum haldið furðu vel í horfinu, þó aldurhnignir félagar þeirra, karlar og konur, hafi samkvæmt lífsins órjúfanlega lögmáli horfið úr hópnum, og sumstaðar fáir komið í skarðið. En sú fækkun félaga hefir verið meir en bætt upp



SÉRA ALBERT E. KRISTJÁNSSON
Forseti 1923—24

með aukning félagsmanna annarsstaðar, bæði innan hinna nýju deilda og einstakra manna og kvenna á ýmsum stöðum.

Á þá við að víkja nokkrum orðum að starfi deildanna, og hefir það verið æði margþætt. Þær hafa haft með höndum Íslendingadagshald í bygðum sínum, fyrirlestrahöld og aðrar íslenskar samkomur til fræðslu og skemtunar, og annast móttöku fyrirlesara og annara góðra gesta frá Íslandi, sem ferðast hafa um í landi hér á vegum félagsins, eða annara fulltrúa þess í útbreiðsluerindum. Þá hafa flestar deildirnar lagt mikið verk í það að viðhalda hjá sér íslensku bókasafni, og margar þeirra hafa haldið uppi íslenskukenslu fyrir börn og unglinga, er jafnframt hefir ósjaldan verið aðalstarfið. Sumar deildirnar hafa einnig gengist fyrir söngkenslu barna og unglinga á íslensku og átt hlut að sjónleikasýningum á íslensku máli.

Vitanlega hafa mismunandi ástæður gert það að verkum, að starf deildanna hefir eigi verið jafn margþætt og víðtækt alstaðar, en allar hafa þær með ýmsum hætti auðgað félagslíf og menningarbrag bygða sinna, staðið vörð um arfleifðina íslensku og haldið á lofti nafni kynstofns vors og hugsjónum. Hvorki það né annað gerir sig þó vitanlega sjálft. Á bak við slíka viðleitni liggur mikið og fórnfúst starf, sem eigi verður auðveldlega mælt eða metið. Því miður eru eigi tök á því hér, að telja upp nöfn hinna mörgu, sem hér eiga hlut að máli, en þakklátlega er þeirra allra minst eigi að síður. Nöfn margra þeirra, embættismanna deildanna á ýmsum tímum, er og að finna í ársskýrslum þeirra, sem prentaðar hafa verið árlega í þingtíðindum félagsins í riti þessu.

*Íslenskukensla og söngfræðsla*

Þar sem það er einn meginþáttur í hinni þríþættu stefnuskrá Þjóðræknisfélagsins "að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi", hefir það að sjálfsögðu lagt sérstaka rækt við íslenskukenslu barna og unglinga, fyrst og fremst með því að styrkja deildir félagsins í því starfi með fjárframlögum, og þá eigi síður með því að halda uppi slíkri kenslu í Winnipeg árum saman; er þeirri fyrirhöfn af félagsins hálfu og þeim fjárframlögum sannarlega vel varið, er til þess þarfaverks ganga.

Eins og skýrt er frá í fyrnefndri

grein dr. Rögnvaldar í tilefni af 20 ára afmæli félagsins, hafði íslenskukensla í Winnipeg farið fram allmarga vetur á laugardögum undir umsjón Good-Templara, þegar félagið var stofnað.[1] Tók deildin "Frón" þá að sér starfrækslu þessa laugardagsskóla og réði jafnframt tvo umferðakennara, er veittu börnum og unglingum tilsögn í íslensku í heimhúsum eina klukkustund vikulega; var starf þetta unnið í sameiningu við Þjóðræknisfélagið, er studdi það fjárhagslega. Hélst farkenslu fyrirkomulag þetta, samhliða laugardagsskólanum, árum saman og bar góðan árangur, því að margir foreldrar notfærðu sér það tækifæri, sem börnum þeirra bauðst hér til íslenskunáms. Minnist sá, er þetta ritar, þess með ánægju og þakklæti, að það varð hans fyrsta starf vestan hafs (veturinn 1921—1922) að vera einn af tveim umferðakennurunum í íslensku í Winnipeg.

Veturinn 1933 varð sú breyting á íslenskukenslunni, að umferðakenslan hætti, en haldið var áfram laugardagsskólanum undir umsjón Þjóðræknisfélagsins, og hefir það fyrirkomulag haldist síðan, og gefist vel, enda hefir skólinn jafnan átt á að skipa æfðu og ágætu kennaraliði, og ber að geta þess þeim til verðugs hróss, að þeir hafa unnið hið mikla nytjastarf sitt við skólann endur-



**SÉRA RAGNAR E. KVARAN**
**Forseti 1927—28**

gjaldslaust. Var skólastjórinn árum saman séra Runólfur Marteinsson, enda fór kenslan í mörg ár fram í Jóns Bjarnasonar skóla. Umsjónarmaður skólans í meir en áratug undanfarið hefir verið Ásm. P. Jóhannsson, er borið hefir hag hans sérstaklega fyrir brjósti.

Aðsókn að Laugardagsskólanum hefir þó verið nokkur minni hin síðari ár, en er enn sæmileg. Ber að harma það, að sumir foreldrar þekkja sýnilega eigi sinn vitjunartíma varðandi fræðslu þá í íslensku, sem hér býðst börnum þeirra ókeypis. Eigi að síður hefir sérstök áhersla verið lögð á það undanfarið, að gera kensluna sem aðgengilegasta og notadrýgsta. Tvö undanfarin ár hefir milliþinganefnd (fræðslumálanefnd) haft kenslumál félagsins með höndum og hefir hún unnið ótrauðlega að

---

1) Annars átti slík íslenskukensla í Winnipeg sér miklu lengri sögu að baki, því snemma á árum gekst dr. Jón Bjarnason fyrir slíkri kenslu, og var skóli haldinn í samkomusal Fyrstu lútersku kirkju um margra ára skeið, undir stjórn Stefáns Björnssonar, þáver. ritstjóra **Lögbergs**, síðar prests á Íslandi.

því verki að skipuleggja íslenskukensluna með þeim árangri, að hún er nú loks komin á fastan grundvöll. Nefndinni hefir einnig tekist að útvega fyrir félagsins hönd heppilegar kenslubækur frá Íslandi, og er með þeim bætt úr brýnni þörf, sem verið hefir á slíkum bókum, og aðstaða kennara og nemenda að því skapi betri en verið hefir. Fræðslumálanefndina skipa Mrs. Einar P. Jónsson, formaður; Ásmundur P. Jóhannsson, Mrs. S. E. Björnsson, Sveinn Thorvaldson, M.B.E., og Miss Vilborg Eyjólfsson.

Í sambandi við íslenskukensluna má einnig geta þess, að Þjóðræknisfélagið hafði um skeið á dagskrá sinni stofnun kennaraembættis í íslenskum fræðum við Manitobaháskóla. Á síðari árum hefir hópur vestur-íslenskra mentamanna látið sig það mál skifta, þó eigi hafi enn komið til framkvæmda í því. Þá átti félagið hlut að því á sínum tíma, að heimilað var kensluleyfi í íslensku í barnaskólum og gagnfræðaskólum (miðskólum) í Manitobafylki, ef ákveðinn fjöldi nemenda æskir þess.

Ennfremur hefir félagið lagt fram fé til íslenskrar söngkenslu barna og unglinga, bæði í Winnipeg og ýmsum bygðunum íslensku. Hafði Brynjólfur Þorláksson söngstjóri þá kenslu á hendi um hríð; einnig annaðist Björgvin Guðmundsson tónskáld slíka kenslu á vegum deilda félagsins, og síðar Ragnar H. Ragnar söngstjóri, er naut til þess starfs nokkurs styrks frá félaginu. Bar starf allra þessara manna hinn besta árangur. Fyr á árum fór söngkensla einnig fram í sambandi við Laugardagsskólann undir stjórn Miss Salome Halldórson kenslukonu og fyrv. þingkonu, en undanfarna vetur hefir Mrs. H. F. Danielson æft söngflokk skólabarna með aðstoð Mrs. S. B. Stefánsson með góðum árangri. Loks ber að minnast þess, að Gunnar Erlendsson söngstjóri hefir á margan hátt árum saman verið félaginu liðsinnandi í söngmálum.

*Tímaritið og önnur útgáfumál*

Á fundum þeim, sem haldnir voru til að ræða um stofnun íslensks þjóðræknisfélags vestan hafs á árunum 1917—1919, og að framan er getið um, kom það glögt fram, að menn álitu það mikilvægt, að slíkt félag gæfi út tímarit málum sínum til stuðnings. Var einnig rætt um útgáfu slíks rits á stofnfundi félagsins og stjórnarnefnd þess falin framkvæmd í því máli. Árangurinn var sá, að ársrit félagsins, *Tímarit Þjóðræknisfélagsins,* hóf göngu sína næsta ár og hefir síðan komið út árlega. Annaðist dr. Rögnvaldur Pétursson ritstjórnina, en ritnefnd var honum til aðstoðar fyrstu tvö árin; eftir það var hann árlega kosinn til starfsins til dauðadags.

Þar sem ritinu er sérstaklega ætlað að vera málgagn Þjóðræknisfélagsins, hlaut það, eins og tekið er fram í inngangsorðunum að fyrsta árgangi þess, að vinna sérstaklega að túlkun og eflingu aðalmála félagsins, í samræmi við stefnuskrá þess. Líti menn svo yfir innihald ritsins frá byrjun, verður eigi annað með sanni sagt, en að það hafi reynst trútt því hlutverki sínu. Það hefir flutt margar prýðilegar hugvekjur, í ljóðum, ritgerðum

staklega tvo menn, sem ókleift er framhjá að ganga, úr all-stórri fylkingu alþýðumanna, er með öllum sanni má nefna alþýðufræðara, svo óþreytandi sem þeir voru að safna fróðleik og bókfæra hann, og þannig að vernda frá glötun gagnleg verðmæti fyrir þjóð sína.

Þeir intu báðir, hver á sinn hátt, af höndum fágætt verk Hinn fyrri er *Gísli Konráðsson.* — Manni hlýnar um hjartaræturnar við að hugsa um Gísla. Hann var fæddur á Völlum í Hólmi, 18. júní 1787. Fulltíða maður kvæntist hann og fór að búa; bjó hann á ýmsum stöðum í Skagafirði. Oft var þröngt í búi hjá honum. Börn átti hann nokkur. Konráð prófessor var eitt þeirra. Margt merkra manna er í hópi afkomenda Gísla. Ekki var hann settur til neinna menta. Gísli varð háaldraður maður. Segja mátti að hann skrifaði og stundaði fræði sín fram í andlátið. Með hálfstirðnuðum fingrum, förlandi sjón og hnignandi heilsu starfaði Gísli að fræði og sagnaritun sinni.

Séra Matthías Jochumsson minnist Gísla (sjá *Sögukafla* hans, bls. 128, o. s. frv.) á þessa leið: "Síðan Espólín leið, má óvíst kalla, hvort nokkur íslenskur fræðimaður hefir náð Gísla að fróðleik, skarpleik og minni."

Talið er það sennilegt að Jón Espólín sýslumaður hinn fróði hafi haft áhrif á Gísla í æsku hans og hvatt hann til fræði-iðkana. Alla sína búskapartíð fékst Gísli við ritstörf hvenær sem mögulegt var, hvort hann var af bæ eða á. Það var fyrst á efri árum, eftir að hann fluttist til Flateyjar á Breiðafirði, að hann gat gefið sig allan og óskiftan að fræðagrúski sínu. Um 25 ár er hann dvaldi þar, er talið að hann hafi naumast litið upp frá skrifum sínum. Þættir úr sögu Íslands voru meginmál fræða hans; er talið að hann hafi meira uppskrifað eftir sig látið, snertandi íslenska sagnfræði, en nokkur annar maður frá alda öðli. Sum rit hans eru um einstaka menn; Þættir, Húnvetninga og Skagfirðinga sögur; ættfræði og atburðasögur. Þess utan hefir hann safnað þjóðsögum og hindurvitna sögum. Bókfróður Íslendingur hefir komist þannig að orði: "Að öllu samanlögðu minna rit Gísla mjög mikið á hin frægu sagnarit Heródóts." Að sönnu getur menn ávalt greint á um gildi slíkra ritstarfa; en enginn getur efast um óslökkvandi þrá Gísla til að fræða þjóð sína og "merkja og draga á land," margþætta fræðslu, er ella myndi með öllu glatast hafa.

Annar ógleymanlegur alþýðumaður og athafnamaður á sama sviði var *Sighvatur Grímsson Borgfirðingur;* (f. 20. des. 1840). Hann ólst upp við sárustu fátækt og enga mentun. — Ungur að aldri kyntist hann Gísla sagnafræðing Konráðssyni, urðu þeir vinir. Sighvatur var þá í vinnumensku í Flatey, þar sem Gísli dvaldi, og átti fáar tómstundir, sem að líkindum lætur. Hinar einu voru sunnudagar og landlegudagar. Sat hann sig lítt úr færi, að safna alskonar fróðleik og skrifa hann upp. Hann kvæntist, og átti fyrir konu og 12 börnum að sjá. Árum saman lét nærri að lífsbarátta hans væri honum ofurefli. Þó varð hann frábær afkastamaður til ritstarfa. Afskriftir hans af ýmsum ritum eru víðsvegar

um Ísland, og all-margar utan þess. Ættartölubækur hans eru í 4 bindum í 4 blaða broti. Prestaævir á Íslandi byrjaði hann að rita 1869, og hélt þeim áfram og jók stöðugt við þær áratugum saman. Er frumrit þeirra 15 bindi í 4. blaða broti; 1100 arkir, þéttskrifaðar, eftir meira en 200 heimildarritum. Sem dæmi um atorku hans til ritstarfa, er sagt að vor eitt, er Sighvatur var í fiskiveri á Fjallaskaga í Dýrafirði, byrjaði hann á sumarmálum að þýða úr dönsku doktorsrit dr. Jóns Þorkelssonar (yngra), um skáldskapinn á Íslandi, á 15. og 16. öld; hafði hann lokið við þýðinguna fyrir 1. júlí, áður en hann fór úr verinu, og hreinritað hana; er þýðingin 697 bls. í 4 blaða broti með öllum registrum og þétt skrifuð. — Hann varð að skrifa á hné sér, orðabókarlaus, í slæmri verbúð — er ókleift var á sjó að fara.

Sighvatur naut vináttu margra merkra manna, svo sem Jóns Sigurðssonar, Friðþjófs Nansen og margra annara. Elja hans og dugnaður voru frábær. Alskonar fróðleik hefir hann skrifað upp. Dagbók hélt hann í 50 ár. Á prenti eru 162 blaðagreinar, ritgerðir og kvæði í ýmsum blöðum og tímaritum.

Þjóðskjalasafn Íslands mun vera eigandi að öllum ritum Sighvats.

Þótt nú aðeins að þessir tveir menn séu hér tilnefndir, er að sumu leyti skara fram úr fjöldanum, getur þó engum dulist hve fjölmennur sá hópur alþýðumanna er, sem stórvirkir hafa verið á alþýðleg fræði og þjóðleg. Er það glæsileg fylking og sérstæð; en þannig er hinn margþætti þroski íslenskra alþýðumanna öld eftir öld.

Að því var vikið, í upphafi þessarar greinar, að löngunin til ritstarfa væri íslenskri alþýðu í blóðið borin. Á dvalarárum Íslendinga í Vesturheimi hefir hinna sömu einkenna gætt. Ávalt hafa menn hér uppi verið, er ekki einungis hafa verið prýðisvel ritfærir, heldur liggja einnig mikil ritstörf eftir marga alþýðumenn hér, bæði fyr og síðar.

Eg vil tilnefna dæmi, máli mínu til sönnunar, úr því umhverfi, er eg hefi haft einna mest kynni af, og dvalið í langvistum, en það er í Nýja-Íslandi. Ef til vill er ekki hægt að telja það til beinnar fræðimensku, en eg veit um bændur í bygðum Nýja-Íslands, er haldið hafa dagbækur um marga áratugi. Einn þeirra, nú látinn fyrir réttum 2 árum, hafði haldið dagbækur og gert veðurathuganir í 62 ár Þar hefi eg kynst mönnum er hafa int allstórt verk af hendi, í athugunum um ættfræði og sögu. T. d. vil eg í því sambandi nefna Magnús Sigurðsson á Storð. Þekking hans á Íslendingasögum og ættum fornmanna mun fágæt vera. Það er ekki ofsögum sagt, að hann hafi "lifað í Íslendingasögunum", þær hafa verið unaður hans og yndi, hefir hann og orðið óvenjulega vel heima í þeim. Hann hefir skapað sér mjög sjálfstæðar skoðanir um sumar þeirra. Ekki er úr vegi að geta þess, að ekki fór Magnús að gefa sig við því að rita ættartölur, fyr en hann var kominn yfir 70 ára aldur.

Hinn maðurinn, sem eg get ekki látið hjá líða að minnast á, er Erlendur Guðmundsson á Gimli. Þekking

hans á samtíð og sagnfræðilegum efnum er fjölþætt. Hann hefir ritað um hin óskyldustu hugsanleg viðfangsefni. Ekki er hann heldur neinn yfirborðsmaður, en er djúptækur í meðferð hvers máls, og lætur óvenju vel að kryfja þau til mergjar. Hann á hin sönnu einkenni fræðimannsins: óþreytandi elju til fræðslu-iðkana og frábæra nákvæmni í allri meðferð máls og framsetningu. Hugðarefni hans sækja að honum, og gefa honum lítinn frið, svo brennandi er áhugi hans. Ekki gat hann gefið sig við ritstörfum fyr en á fullorðinsárum, en ævilangt mun hann hafa safnað að sér frumdrögum og fræðslu, er hann vinnur úr, á efri árum sínum.

Ef dæma skal eftir vikublöðunum íslensku hér vestan hafs, hygg eg þá vera marga, eldri mennina hér vestra, sem safnað hafa miklum fróðleik og eru prýðilega fróðir — og ritfærir, þótt hér hafi eg eingöngu til þeirra vitnað, er eg hefi haft persónuleg kynni af.

Eg enda þessar fáu línur með því, að fullyrða, að fáar ef nokkrar þjóðir muni eiga jafn fróðleikselska alþýðu sem vor eigin íslenska þjóð. Fyr og síðar buðu þeir byrgin hatrömmum lífskjörum og kringumstæðum. Oft skrifuðu þeir með eigin blóði. Þeir grófu gull úr grýttum jarðvegi torsóttrar fræðslu, er þeir lögðu í hendur samtíð sinni og komandi kynslóðum; oftast voru einu launin vanþökk og misskilningur. Þeir brugðu blysi þjóðlegrar fræðslu á loft, þótt eigin fingur oft brynnu.

Við minnumst þeirra með þakklæti, og metum atgjörvi og göfgi íslenskrar alþýðu. Í straumhvörfum aldanna mættu þau einkenni jafnan lifa: þráin til fræðslu — og sjálfstæðrar athugunar — og löngunin til að fræða aðra um hjartfólgin hugðarefni.



# Jón Sigurðsson

**Eftir Steingrím Arason**

Enn er haldin hátíð þín,
hjartans vinur Íslands barna;
dýrðleg ofar öðru skín
enn þín bjarta leiðarstjarna.
Færri myndu flekkir skjöld vorn lita
fleiri' ef stýrðu eftir þínum vita.



Ísland lá í sárum — þá eignaðist það son,
sem örvænting þess sneri í glaða trú og von,
og beitti alla ævina yfirburðum sínum
ó, ættjörð þig að vekja og bæta úr hörmum þínum.

Orðstír þinn og hagsvon hann fyrir brjósti bar;
og beitti aldrei kröftunum sér til hagnaðar;
alt líf sitt þeirri hugsjón hann helgaði í lotning
að hefja þig úr ánauð og gera þig að drotning.

Skeinuhætt varð stundum í andans odda hríð,
er ættjörð fjarri háðirðu þrjátíu ára stríð.
Að sannfæra það íhald, það sýndist vonlaus vinna,
en "víkjum aldrei" hljómaði úr röðum kappa þinna.

Af skýrum sannleiks rökum þá áttir heilan her;
að heimta frelsi lands þíns þú aldrei hlífðir þér.
Og saga lands vors eignaðist sigurhetju eina
með sverðið andans hvassa og skjöldinn ítur hreina.

Heill og þökk þeim Dönum, sem hlýddu á þín rök
og hendur með þér lögðu á andans grettistök,
sem lærðu að meta "Riddarann lýtalausa" glæsta
með ljóma dýrðlegs manngulls hins fegursta og stærsta.

Sú fyrirmynd er dýrmæt, sem alheims leiðarljós;
í lausn á deilum þjóða þar spratt hin fyrst rós.
Þú breyttir andans kulda og viðkvæmustum vanda
í veglyndi og samúð og hlýjan bróðuranda.

Það brenna margir vitar, sem lýsa höf og lönd;
þeir laða til sín hugann, ef siglt er nærri strönd.
En fáir lyfta augum að himingeimi heiðum
hvar heimskautsstjarnan logar á ystu norðurleiðum.

Þá fyrirmynd sem gafst þú — hinn fagra, dýra arf —
um fórnir, speki, drenglund og óþreytandi starf;
hún heiminum er leynd og í ljósið sjaldan borin,
og löndum þínum fatast að stíga á troðin sporin.

Þótt ýmsar raddir þagni í alheims sverða gný,
og elda kyndi hatrið svo logann ber við ský, —
þá sannast það að mannvits og mannkærleikans kraftur
er meiri öllum herstyrk — og sigrar jafnan aftur.

Loksins, þegar mannvitið brýtur síðsta sverð
og sættir ríkja tryggjast í alþjóða gerð,
skal minst þess lands, sem fremst varð á ferli þeirrar slóðar
að fá sinn rétt án vopna úr hendi stærri þjóðar.

# Fulltrúi ríkisstjórnar Íslands



**HERRA SIGURGEIR SIGURÐSSON**

**Biskup yfir Íslandi**

Er Tímaritið var að allmiklu leyti prentað barst sú óvænta fregn vestur hingað að ríkisstjórn Íslands hefði valið herra biskupinn til að mæta fyrir sína hönd á tuttugu og fimm ára afmæli Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, sem halda skal 21.-23. febrúar 1944. Mun hann einnig heimsækja eitthvað af bygðum vorum í Canada og Bandaríkjunum. Um leið og vér birtum mynd biskups, fögnum vér komu hans og bjóðum hann velkominn.

# Þegar eg var auðkýfingur

Eftir Dr. J. P. Pálsson

Það kom fyrir mig tvisvar í æsku — og síðan aldrei söguna meir.

I.

Þegar eg var drenghnokki á Íslandi, lékum við bræðurnir okkur, meðal annars, að kindahornum. Við beittum þeim, rákum saman, hýstum og settum á vetur og fórum að í öllu eins og góðum fjárbændum sæmdi. Og eftir því sem áhuginn óx fyrir þessari fjárrækt okkar, eftir því biðum við með meiri óþreyju eftir sláturtíðinni, þegar við áttum víst að geta aukið við hjörðina. En æskan er bráðlát, og norrænt framtak liggur í blóði okkar Íslendinga.

Einhvern veginn komst eg yfir hvítt gljápappaspjald og klipti það niður í kringlur af ýmsum stærðum. Síðan krotaði eg kóngshaus og rúnir á kringlurnar og sló því föstu að þarna væri góður og gildur gjaldeyrir. (Síðan hef eg lært að nefna slíkt kapital). Og reyndist mér furðu auðvelt að sannfæra leiksystkini okkar um verðmæti þessarar nýju myntar; og nú keyptum við horn þeirra fyrir peninga út í hönd. Nú takmarkaðist vöxtur hjarðarinnar aðeins við gljápappa-upplag okkar, en það var hvergi nærri óþrjótandi. Þrátt fyrir það, gerðumst við bræður mestu fjármenn á Reykjaströnd. En annríki okkar óx að sama skapi sem fénu fjölgaði, og svo fór, að okkur fanst hægara að horfa á hornahrúguna, en amstrast við að breiða hornin út um tún og tóftir að morgni og bera þau saman að kvöldi. Aðrir krakkar áttu fullar buddur af peningum og versluðu sín á milli með brauðbita, sykurmola, leggi og skeljar. Líf þeirra virtist því nær áhyggjulaust — engin smalamenska, enginn þrældómur og enginn áhugi fyrir stórgróða. En kapital okkar lá alt í hornum, og hvergi meiri gljápappa að finna. Lakast var þó alment áhugaleysi fyrir fjárrækt. Jafnvel sérstæð horn af ferhyrndum hrútum voru nú einskis virði á markaðnum. Og þegar aðrir kærðu sig ekki lengur um að eignast horn, fanst okkur lítið til þeirra koma. Við mistum alla trú á þeim; og vorum nú komnir í það ástand sem nú á tímum nefnist kreppa. Við þessi vandræði okkar bættist svo annað verra. Jafnaldri minn, sem átti heima sunnar á ströndinni, komst inn undir hjá búðarloku á Króknum, sem byrgði strákinn upp takmarkalausu upplagi af gljápappa. Tók hann nú að klippa kringlur og krota á þær, og gerði mun betur en eg, því hann var mér miklu færari með pennann. Gengu nú mínir peningar fljótt úr gildi og týndust eða eyðilögðust á annan hátt. Þessir nýju peningar flæddu yfir ströndina, og kreppunni var lokið. Alt gekk kaupum og sölum, og ekki hvað síst kindahorn, því nú vildu allir verða fjármenn. En við þóttumst hepnir að losast við hornin, sem okkur fanst ekki lengur vera sauðfé, og eignast álitlega pen-

inga-upphæð. En gróðinn reyndist skammvinnur. Hinum nýja meistara myntarinnar þraut aldrei gljápappi. Hann sneið nýjar kringlur og krotaði rúnir og myndir á þær, sem báru af öllu sem áður hafði sést; og enn gekk góður gjaldmiðill úr gildi fyrir öðrum nýjum. Nú vorum við hornalausir og peningalausir. Þetta var ekki kreppa, heldur blátt áfram fátækt, jafnvel örbirgð.

Þá kom sérstakt atvik fyrir sem gjörbreytti fjárhag okkar, og það fyrir einbera tilviljun. Faðir minn var skytta, og notaði stór högl, sem kölluðust rennilóð, þegar hann skaut á seli eða hnísur. Ekki man eg hvernig það atvikaðist að eg flatti eitt rennilóðið út með hamri á steðja; en mér er enn minnisstætt hvernig mér var innanbrjósts, þegar eg horfði á blýkringluna og bar hana saman við pappapeningana keppinautar míns. Eg krotaði eitthvað á plötuna. Þarna var skildingur í lagi! Nú hnupluðum við höglum frá föður okkar og slógum peninga í krafti laganna — okkar laga.

Aftur urðum við auðugir, og það fyrsta sem við gerðum var að kaupa inn öll horn sem voru til sölu; og þau voru mörg, því allir vildu eignast þessa nýju málmpeninga, og þótti lítið koma til gljápappa-gjaldeyris.

Skildum við nú ekki hvernig okkur hafði nokkurntíma getað þótt lítið varið í horn. Nú varð hjörðin aldrei nógu stór; og eins var með sjóðinn sem óx þó dag frá degi. Nokkur ótti fylgdi þó auðnum. Keppinautur minn var vís til að detta ofan á eðli og uppruna velmegunar okkar, og ná í efni hjá búðarlokunni. Hins vegar mundi hörðu að mæta frá hendi föður okkar, kæmist hann að því hvernig við rændum haglapokann hans.

Samviskuna friðaði eg með því, að plöturnar mætti altaf bræða upp og rúlla úr þeim högl á ný. Það var alvanalegt. Blýið var skorið niður í teningslagaða bita og "rúllað" með sléttum, ávölum steini í járnpotti. En það var annað sem kom okkur í koll. Þegar við bræður sátum nú einir að öllum hornunum og því nær ótakmörkuðum peninga-sjóð, mistu leiksystkini okkar smámsaman allan áhuga fyrir þessum auðæfum. Við fjarlægðumst þau eins og anda á astral-plani. Þau léku sér að leggjum og skeljum, selkjúkum og hverju öðru skrani sem þau gátu hönd á fest, öllu nema hornum og blýpeningum. Það kvisaðist jafnvel, að sum hefðu lagt saman sjóði sína, brætt upp blýið og skift því við skyttu, suður á Strönd, fyrir sælgæti úr kaupstaðnum. Af skiljanlegum ástæðum gátum við ekki einu sinni haft svo mikið sem brjóstsykurmola upp úr okkar peningum. Látbragð þeirra gagnvart okkur bræðrum sýndi glögt að við vorum velkomnir að auðnum. Best að hver byggi að sínu. Þá mistum við líka alla trú á auðlegð okkar. Hvorki sauðfé né peningar höfðu nokkru sinni gert okkur eins glaðan dag, eins og þegar þau tóku okkur á ný inn í félagsskap sinn og við lékum með þeim að leggjum, skeljum, kjúkum með öðru, sem ekki hafði neitt lögboðið verðmæti og gat ekki gengið kaupum og sölum. Hornunum vorum við viljugir að skifta með þeim, en enginn kærði sig um þau.

Þau lágu í hrúgu fyrir ofan bæinn og liggja þar ef til vill enn.

II.

Skömmu eftir að eg kom til Ameríku, varð eg stórgróðamaður í annað sinn.

Svo hagaði til í Geysis-bygð, að gamli skólinn stóð á fljótsbakkanum. Kensla fór fram í sex mánuði á ári, um kaldasta tímann. Einn eldri drengjanna átti smásleða, sem hann kom með á skólann. Á honum rendum við okkur til skiftis niður bakkann. En margir lentu útundan og horfðu á sleðaferðirnar með ógleði og eftirvæntingu.

Kennaranum gafst miður að þessum ójöfnuði; því hann vildi að jafnt gengi yfir alla nemendur sína, hvað lífsgleði snerti. Hugsaði hann því málið, og gerði tillögu um, að við leituðum fyrir okkur um fleiri sleða, eða að öðrum kosti einn nógu stóran til að bera marga farþega í senn. Var málið rætt fram og aftur, en ekki auðvelt að komast að ákjósanlegri niðurstöðu. Bændur áttu, að vísu, sleða sem einn uxi gekk fyrir. En þeir voru þungir og klunnalegir, reknir saman úr plönkum.

Ferð á slíku ferlíkani, niður bakkann, var varla þess virði að tosa því til baka. Svo voru þessi tæki í brúki við heimilin, til flutninga á heyi og eldivið. En að standast kostnað á efni og smíði slíks farartækis var okkur um megn. Fregnin um þessi vandræði okkar hefir víst borist út um bygðina, því piltur einn, sem kominn var af skólaaldri tók sig til og smíðaði sleða eftir eigin höfði og léði okkur hann. Efnið var úr eikartrjám sem uxu á fljótsbakkanum, og var sleðinn haglega gerður, traustur, en þó léttur. Ekki rúmaði hann þó nema tvo, eða mest þrjá farþega, svo enn máttu olnbogabörnin horfa eftir hinum, sem svo lánsamir voru að geta rent sér niður bakkann. Svo enn var langt frá því að leikurinn ylli almennri ánægju.

Enn hugsaði Kennarinn ráð sitt. Hann sýndi okkur fram á að brekkan væri ófullkomin, og sleðaferðirnar ekki eins skemtilegar eins og þær mætti vera. Það væri nauðsynlegt, að byggja slakkann upp, til að jafna hraðann og auka vegalengdina sem sleðinn rann. Hann mun hafa haft í hyggju sleðabrekkur þær, sem reistar eru í útjöðrum stórborganna, en við höfðum aldrei séð. Hann lýsti þessum rennum fyrir okkur, og sáum við brátt að við höfðum engin efni á að reisa slíkt stórvirki. "En þið hafið nóg efni," sagði Kennarinn. — "Snjó og vatn. Úr þessu má steypa eins og besta sementi í vetrarfrostinu." Og við tókum að steypa úr krapi eftir fyrirsögn Kennarans.

Rennan var bygð skáhalt fram af bakkanum þannig, að hún vísaði upp eftir bugðu í fljótinu, svo hversu langt sem sleðinn rann eftir að ofan á ísinn kom, varð hinn bakkinn ekki til farartálma. Einskonar öryggisbríkur voru steyptar á báðar rendur rennunnar, svo sleðinn kastaðist ekki út af henni; því hún var all há og ferðin mikil. Að verkinu unnu allir, stórir og smáir, stúlkur og piltar; og hefi eg aldrei, fyr né síðar, séð slíkan áhuga og ósérplægni koma í ljós hjá óbrotnum verkalýð.

Að loknu verki þótti sanngjarnt að

jafnt gengi yfir alla, og við rendum okkur til skiftis niður brekkuna, og skyldi farþegar skila sleðanum í hvert skifti. En auk þess að aka sleðanum upp brekkuna, útheimti þetta nýja fyrirtæki talsverða fyrirhöfn — að sópa og vatnsbera rennuna og ísinn, eins langt og sleðinn rann. Þesssi vinna fór oft fram fyrir og eftir skóla, svo frítímunum yrði varið til ferðalaga. Nokkur tími gekk í að skila sleðanum til baka, og fanst stundum þeim sem biðu eftir honum, að betur mætti ganga. Fimtán mínútna frítími reyndist of stuttur til þess að allir gæti tekið sér túr. Og enn varð hópurinn sem beið á bakkanum eirðarlaus.

Að líkindum var það þetta eirðarleysi, þegar það greip okkur eldri drengina, sem hvatti okkur til að finna leið út úr vandræðunum. Í anddyri skólans voru nokkrir langbekkir, sem notaðir voru við skemtisamkomur, pólitísk fundarhöld og hátíðamessur, sem haldin voru í skólanum. Á þessum bekkjum tókum við traustataki og festum þá uppíloft, langsætis á sleðann, svo nú rúmaði hann átta til tíu farþega.

En nú kom kennarinn til skjalanna. Var sleðinn nógu traustur til að bera slíkan farm? Og ef hnykkur kom á hann, mundi hann ekki brjóta öryggisbríkina og kastast út af rennunni? Var nú sleðinn fyrst athugaður í alvöru, reyndur á allan hátt; og kom þá í ljós hversu vel og traustlega hinn ungi smiður hafði bygt. Hitt reyndist vandasamara, að fá fullvissu um, að ferðin væri hættulaus; og varð þeirri spurningu ekki svarað fyr en sleðinn kastaðist út af rennunni, og flestir farþegarnir hrufluðust á andlitum og útlimum. En þá sló ótta yfir skólalýðinn. Ekki vegna meiðslanna, sem reyndust smávægileg, heldur hins, að Kennarinn mundi leggja blátt bann við fleiri ferðum. En við lögðum ekki árar í bát. Eins og frumbýlingum sæmdi, kom okkur ekki til hugar að gefast upp. . . Fyndist aðeins ráð til að hafa hönd á sleðanum niður brekkuna, beita honum eftir vild . . . stýra honum . . . og gátan var ráðin!

Við slóum saman ofurlítið sleðagerfi og festum það aftan í. Á þessu kraup stýrimaðurinn og beitti farþegasleðanum eftir vild. Þetta veitti ekki aðeins öryggi niður eftir rennunni, heldur rann nú sleðinn lengra og beinna þegar ísinn tók við. Og jókst nú áhuginn um allan helming. Var ekki laust við að sumir okkar fengi snert af ofurmenniskend, og teldum okkur kjörna af forsjóninni, að ráða yfir og skipuleggja fyrirtækið. Eg fyrir mitt leyti fullvissaðist um að eg væri vel til forustu fallinn, þegar Kennarinn skipaði mig stýrimann, gerðist sjálfur farþegi fyrstu flutningsferðina og forbauð að nokkur annar en eg sæti, eða öllu heldur krypi við stýrið. Ekki vissi eg neina gilda ástæðu, hví eg hlaut svo veglega ábyrgðarstöðu, en efaðist ekki um dómgreind Kennarans; og meðan eg braut ekki í bága við álit hans, fanst mér sjálfsagt að skipa fyrir um þær breytingar, sem mér virtust til bóta. En eg fór að eins og Hitler og fleiri einvöldungar, ráðfærði mig, þó ekki væri nema að nafninu til, við ötulustu stallbræður mína.

Það fyrsta sem eg græddi á embættinu var að losast við að hjálpa til við uppdrátt á sleðanum. Slíkt erfiði sæmdi ekki stýrimanni. En eg gat heldur ekki staðið hjá þegar aðrir unnu án þess að gefa einhverjar fyrirskipanir. "Köstum stýri-sleðanum upp á stóra sleðann og ýtum honum svo aftur á bak upp rennuna," sagði eg. "Og látum sjá að við séum lifandi!" Vitaskuld snerti eg ekki sleðann, en við að tala þannig í fleirtölu fanst mér eg ýta best og hlaupa harðast upp rennuna, þó eg labbaði í hægðum mínum upp bakkann.

Í fyrstu keptust allir við að komast að, til þess að hlaupa upp með sleðann, því næst skiftust allir á um það í bróðerni, en svo kom að því að nokkrir voru of stórlátir eða latir til þess að leggja á sig líkamlega áreynslu. Komst þannig á hin óumflýjanlega stéttaskifting. Aristókratarnir vildu sitja fyrir að ferðast niður brekkuna, en alþýðan bar ábyrgð á að sleðinn kæmi upp. Og fór nú að brydda á stéttaríg. Þetta sá Kennarinn, og í von um að vinnan jafnaði þessar misfellur, benti hann okkur á, að vel færi á því, að steypa tröppur meðfram rennunni, svo farþegum veittist ferðin léttari upp bakann. Við þessu daufheyrðust menn. Allir vildu heldur leika sér en standa í erfiðisvinnu, sem ekkert var upp úr að hafa. Það kom hvort sem var altaf niður á þeim sömu, að sjá um sleðann og halda rennunni við.

Nú rifjuðust upp fyrir mér gamlar endurminningar. Peningar! Því ekki að skipuleggja þetta fyrirtæki á hagfræðilegum grundvelli? Og það varð úr, að vissir miðar, t. d. af tvinnaspólum, *Pain Killer* glösum, vindlakössum, ásamt ónýtum frímerkjum, voru lýst löglegur gjaldeyrir; og ákvað Kennarinn verðmæti þeirra. — Einnig skar hann úr um gengi og met nýrra og fáséðra miða.

Þetta breytti þó lítið stéttaskiftingunni. Brátt kom í ljós, að þeir sem áður höfðu reynst latastir og ráðríkastir, reyndust ötulastir til að ná í hinn nýja gjaldeyri. En nú fór enginn með sleðanum, nema hann keypti farbréf. Og ekki var tekið hendinni til, nema fyrir peninga út í hönd. Það fé, sem kom inn fyrir fargjöld, var greitt í kaup þeim sem unnu við að ýta sleðanum upp og halda rennunni við. Gekk svo til vors. En einhvern veginn fór það svo, að þeir sem mest erfiðuðu áttu minst í buddunni.

Næsta vetur varð þó auðurinn enn misskiftari en fyr. Um haustið var stofnað hlutafélag. Og keypti hver hlutabréf fyrir alla þá peninga sem hann átti til. Fjöldinn átti aðeins nóg, til að eignast einn eða tvo hluti, en við burgeisarnir keyptum þá í tuga tali. Svo þegar byrjað var að vinna, voru það fátæklingarnir sem ákafastir voru, og ef við eignamennirnir héldum ekki að okkur höndum, var ástæðan sú, að því fyr sem verkinu var lokið, því fyr gæfi hlutir okkar eitthvað í aðra hönd. Þess utan biðu allir með óþreyju eftir að sleðaferðir kæmi sem fyrst í gang.

Nýja rennan var hækkuð allmikið með stalli, sem steyptur var upp á bakkanum. Um hann voru steyptir veggir, og var talsvert rætt um að reisa hvelfing yfir. En aldrei varð þó neitt af því. Okkur fanst eins og var, að þetta væri all glæsileg stöð,

sem gaf rennunni nýjan svip og sæmdi prýðilega þessu kostbæra fyrirtæki. Því einhvern veginn gleymdist nú, að vinna margra handa hafði skapað þetta stórvirki. Hugur allra beindist að hlutabréfunum og peningunum sem lágu í þeim. Og fanst okkur að verðmat slíkrar stofnunar gæti naumast talist í hundruðum, heldur þúsundum. Þessvegna hækkaði Kennarinn allan gjaldeyri í verði. T. d. *Pain Killer* miði sem gilti eitt hundrað dollara, varð nú þúsund dollara virði o. s. frv.

Bókhald félagsins var systur minni falið á hendur. Er óvíst að nokkur önnur kona hafi haldið þvílíkri ábyrgðarstöðu á þeim árum. Meira að segja þegar við stofnuðum bankann, varð hún einnig skrifari hans og gjaldkeri. Það var víst Kennarinn, sem hvatti okkur til þess að stofna bankann. En hann hefði varla gert það, hefði hann séð fyrirfram hvað sú stofnun hafði í för með sér. Því nú fyrst tókst okkur stórlöxunum að koma ár okkar fyrir borð. Og síðan hefi eg oft dáðst að því, hvernig við fákænir og afskektir unglingar söfnuðum auð á vísu nútíma stórgróðamanna. Fjármál eru að sögn afar flókin, en okkur reyndist þau mjög svo einföld. T. d. keyptum við inn eins mörg hlutabréf og við gátum, en sáum þó um að hver og einn héldi einum hlut. Svo hækkuðum við þau í verði eftir því sem okkur sýndist. Vitaskuld seldum við þau, þegar þau voru í háu verði, en bankinn setti sitt mat á þau; og þegar þau féllu, keyptum við aftur. Ekki nóg með það, við græddum á sjálfum gjaldeyrinum. Væri viss tegund gjaldeyris, svo sem *Pain Killer* miðar eða fáséð frímerki í höndum sótsvartrar alþýðu, feldum við þennan gjaldeyri, þar til hann var í bankanum. En þá reis hann í verði. Um verðmæti gjaldeyris hafði bankinn alt að segja. Kennarinn var hættur að skifta sér af slíkum smámunum. Hann var hlutlaus áhorfandi, og stóð vel að vígi, að kynnast upplagi okkar og eðlisfari.

Leikurinn gekk glatt fram yfir miðjan vetur. Þá fór að draga úr áhuga alþýðunnar. Hún vann af kappi, en átti þó lítið eða ekkert í aðra hönd. Kaupgjald var hækkað hvað eftir annað, en farbréf með sleðanum stigu að sama skapi. Og þegar lítið snjóaði, var sama sem engin vinna við að halda rennunni við. Við tókum bendingu Kennarans, og létum steypa veglegar tröppur upp bakkann. En að því verki loknu varð algert vinnuleysi, svo aðeins fáir höfðu efni á, að ferðast með sleðanum, nema stöku sinnum; og marga ferðina fór hann aðeins hálfskipaður. Og nú fyrst komu verulega í ljós yfirburðir okkar ríkisbubbanna. Við leigðum sleðann, einn og einn í senn, og tókum eina eða tvær álitlegustu stúlkurnar með okkur. Stöku sinnum fyltum við hann með sótsvartri alþýðu, sem mannkærleiksmönnum sæmdi. Gjaldþol okkar var takmarkalaust, og gátum við lifað og látið eftir vild. Við áttum flesta hlutina, og því meir sem við eyddum, þess hærri varð gróðinn. Að okkar dómi var fyrirkomulagið í alla staði ákjósanlegt, og við skildum ekkert í ólund og afskiftaleysi alþýðunnar, sem sífelt gerði meir og meir vart við sig, og sem loks gekk svo langt, að

enginn fékst til að skila sleðanum, né sópa og vatnsbera rennuna.

Svo kom að því einn góðan veðurdag, að nokkrir af nemendunum komu í skólann með skóflur og gamla sópa. Með þessi tæki fóru þeir spölkorn niður eftir fljótinu og tóku að hreinsa snjóinn af ísnum, þar til þeir höfðu rutt álitlegan blett fyrir skautasvell. Fáir áttu skauta, en úr því rættist bráðlega. Gjarðajárns-bútar voru festir neðan í tré sem bundið var svo á fæturna. Hér rendu sér allir frítt og gratis; og brátt sátum við stórgróðamennirnir einir að rennunni og öllum fjársjóðnum. Okkur hafði yfirsést í því, að ná ekki einhverskonar einkaleyfis-valdi yfir öllum ís á Íslendingafljóti. Í stað þess náðum við í einhver skauta-skrífli, og var náðarsamlega leyft að taka þátt í hinum nýja leik.

N.B.—Viljandi hef eg ritað með upphafsstaf orðið *Kennarinn,* því hann var J. Magnús Bjarnason. (Höf.).

★

# Vetrarsýn

Eftir Richard Beck

Blaðarúnar bjarkir fórna
bænarörmum himins til,
stara klaka-stirndum augum
stríðan gegnum vetrarbyl;
bíða, mæddar, betri daga,
blíðan dreymir sumaryl.

Þungur reyndist Þorri löngum
þeim, er frostið nísti grein
feigðarköldum fingrum hvítum,
fjúkið rómi æstum hvein.
Beið þó sól að baki hríða,
brosti stjarna ein og ein.

Spegla bjarkir blaðarúnar
barna jarðar vetrardvöl,
Þorran kalda þeirra daga,
þungra nátta hjartakvöl;
vakir þó og varpar ljóma
vonin yfir þeirra böl.

★

# Rithöfundar Tímaritins og verk þeirra

Það var víst samkvæmt bendingu síðasta ársþings félags vors, að stjórnarnefndin fól mér að minnast í þessu ársriti, að einhverju leyti, aldarfjórðungs afmælis félagsins.

Forseti félagsins, Dr. Richard Beck, hljóp drengilega undir bagga með því að skrifa fyrir mig ritgjörð þá um sögu og starf félagsins, sem birtist hér fremst á blaði. Er þar víst flestu hreyft, sem nokkru máli varðar og ekki var rætt í grein fyrverandi ritstjóra Tímaritsins, Dr. Rögnv. Péturssonar. Einu mætti eg þó bæta við, sem Dr. Beck vitanlega gekk framhjá, að enginn hefir unnið af meiri áhuga, með meiri dugnaði og óeigingirni að áhugamálum félagsins en hann sjálfur, síðan hann gerðist forseti þess.

Eg hafði í fyrstu ætlað mér, að skrifa sérstaka grein um Tímaritið sjálft, sem einnig er tuttugu og fimm ára með þessa árs riti. En bæði er það, að rúm mun ekki endast til þess, og svo sé eg að Dr. Beck hefir tekið það sérstaklega til yfirlits, og læt því þar við sitja. Svo væri kannske hægt að spyrja: Hví að gera þetta litla tímarit sérstaklega að umtalsefni á þessum stórflóðstímum alls prentaðs máls. Því mætti auðvitað svara á þá leið, að gagnsemi hlutanna fari ekki ávalt eftir stærð þeirra. Fjölnir var ekki stórt rit eða langlíft — svo eitt dæmi af mörgum sé nefnt — níu árgangar í smáu broti. En hvílíkt undra rót var það ekki, sem hann kom af stað! Hann var það Gjallarhorn, sem kvað við landshorna á milli, og leysti tungu vora úr dönsku skrifstofu álögunum.

Tímarit vort er að vísu ekkert Gjallarhorn; en það hefir samt ákveðið hlutverk, sem sé, að styðja að viðhaldi tungu vorrar hér í landi og heilbrigðum þjóðarmetnaði. Og tvennu öðru hefir það afkastað: — *að* varðveita frá glötun margt það besta, sem "landar" hér hafa hugsað og skrifað, síðan það hóf göngu sína — og *að* sameina innan einnar og sömu kápu hugsanir og verk manna af ólíkustu skoðunum og flokkum, sem óhugsanlegt hefði verið talið fyrir meira en fjórðungi aldar. Má vel gjöra sér í hugarlund, að það, ekki síst, verði til þess, að bregða upp spegilmynd fyrir komandi kynslóðum af hinu andlega viðhorfi Vestur-Íslendinga á því tímabili, sem ritið var að koma út.

Æskilegast hefði verið að flokka ritsafn Tímaritsins eftir efni, þannig að í einn flokkinn kæmi ritgjörðir, fyrirlestrar og æviminningar; í annan sögur, leikrit og riss af ýmsu tæi, og í enn annan öll ljóðagjörð, bundið og órímað. En svo kemur það brátt í ljós, að fjöldi þeirra, sem mest eiga í ritinu, mundu verða flokkaðir í alla þessa liðu, og er ekki nauðsynlegt að benda á nein dæmi því til sönnunar.

Ánægjulegast hefði auðvitað verið, að hafa stutta skýringu, er gæfi deili á höfundunum. En þegar þess er gætt, að í milli 110—120 nöfn koma til greina, sést fljótt, að rúm það, er

eg hefi yfir að ráða, hrykki ekki til hálfs. Í þess stað vil eg lauslega liða sundur þessa 120 höfunda eftir efni þess, er þeir skrifuðu um. Um eða yfir 50 hafa aðallega skrifað ritgjörðir ýmiss efnis; allmargir þeirra þó ort kvæði og fleira annað ritað. Smásöguhöfundarnir eru 15 eða 16, og hafa sumir þeirra einnig um annað skrifað. Leikrit hafa tveir samið og jafnframt ort kvæði, skrifað sögur og fleira. Þá koma þeir, sem ljóð hafa ort; og eru þeir yfir 50 að tölu. Að minsta kosti 40 af þeim eru Vestur-Íslendingar. Fer þó fjarri sanni, að allir, sem yrkja hér vestra, séu þar á blaði. Væri auðvelt að telja á öllum fingrum og nokkru betur þá ljóðasmiði, sem aldrei hafa sent Tímaritinu vísu, hvað þá meira. Við þetta má bæta þeirri skýringu, að talsvert af vísum og kviðlingum eru eftir dána menn og konur, sem hvergi höfðu verið áður prentaðir, en álitnir þess virði að varðveitast frá glötun.

Skulu hér þá taldir höfundarnir, og verk þeirra, sem mest í þeirri röð, er þeir komu fyrst í Tímaritinu. Tölurnar merkja árganga Tímaritsins.

Til þess að spara rúm hefi eg slept öllum skýringum við fyrirsagnirnar — til dæmis: ritgjörð, æviminning, leikrit, kvæði, saga — þýtt eða frumsamið — enskt eða íslenskt o. s. frv. Verða þeir, sem fletta upp ritinu, að finna það sjálfir. *Ritstj.*

★

**Dr. Rögnvaldur Pétursson**

1. Tímaritið (inngangsorð).
1. — 4., 6. og 8. Þjóðræknissamtök Ísl. í Vesturheimi.
2. Percy Aldridge Grainger.
   Nýlátnir merkismenn á Íslandi.
   Fulltrúi Fjallkonunnar.
   Fyrsta ársþing Þjóðræknisfélagsins.
5. Að frægðarorði (Salverson-Walters).
6. Dufferin Lávarður og Nýja Ísland.
7. Sitt af hverju frá Landnámsárunum.
10. Níunda ársþing (þingbók).
11. Ísland og Alþingishátíðin.
14. Tala Íslendinga í Canada.
    Þrettánda ársþing (þingbók).
15. Upphaf vesturferða og þjóðminningarhátíðin í Milwaukee 1874.
    Kveðja við útför séra J. A. Sigurðssonar.
    Fjórtánda ársþing (þingbók).
16. Landskoðunarferðin til Alaska 1874.
18. K. N. Júlíus. Ragnar Lundborg.
20. Þjóðræknisfélagið 20 ára.
21. Íslenskir vesturfarar.

**Stephan G. Stephansson**

1. Þingkvöð. Gróðabrögð.
   Einhversstaðar sver hún sig í ættina. Segðu þér það sjálfur.
3. Goðorðsmaðurinn. Á rústum hruninna halla. Skynþúfa.
4. Martius. Nift nera. Afi og Amma.
   Galílearnir. Lengst lafandi lauf.
5. Bobby Burns.
6. André Courmont. Gjafmildi.
7. Skjálfhendan. Metnaður.
8. Haustgöngur. Hjörtur C. Thordarson.
12. Fyrirlestur um Andra jarl.
    Þiðrandakviða.
17. Guðbjartur Glói (Brot). Kvæðabrot: Alibi. Glámskygni. Þýsku kartöflurnar.

**Kristinn Stefánsson**

1. Geislinn. Snjór.

**Séra Guttormur Guttormsson**

1. Þjóðararfur og þjóðrækni.

**Prófessor Halldór Hermannsson**

1. Vínlands ferðirnar.
2. Landafundir og sjóferðir í Norðurhöfum.
14. Leifur heppni.
23. Columbus og Cabot.

**Séra Jónas A. Sigurðsson**

1. Málið okkar.
5. Þrjú kvæði: Hálfur máni. Vörn Brútusar. Hér er mín eigin ættarströnd.

21. Frank North.
22. Bessi.
23. Hafliði.
24. Eyvindur.
25. Sighvatur.

**Hjálmar Gíslason**

1. Líf í landi.

**Guttormur J. Guttormsson**

2. Þrjú smákvæði: Dansinn. Veiðin. Úr jarðnesku.
5. Á bakkanum. Flóttinn.
6. Morðið.
20. Smjör.
21. Birnir.
24. Dansinn í Hruna.
25. Skrifað fyrir leiksviðið. Sálin.

**Séra Kjartan Helgason**

2. Verðhækkun.
3. Máttur orðsins.

**Þorbjörn Bjarnason (Þorskabítur)**

2. Vordraumur.
8. Andstæður. Brot úr kvæðaflokki: Áhlaupið. Blotinn. Til Íslands.
9. Vesturför. Við lát St. G. St.
12. Til Þjóðræknisfélagsins.

**Séra Guðmundur Árnason**

2. Eiríkur Magnússon.
4. Tvenn sambönd.
5. Arfurinn.
19. Um giftingar í Vesturheimi.
20. Nokkur orð um landnámið í Álftavatns og Grunnavatnsbygð.
21. Íslenskar bókmentir í Canada. Ragnar E. Kvaran.
22. Doktor Rögnvaldur Pétursson.
23. Þrír merkir Vestur-Íslendingar.

**Jakobína Johnson**

2. Þrjú kvæði: Íslensk arfleifð. Mig langar. Samlokur.
3. Tvö kvæði: Í fjallasýn. Reynsla.
4. Melkorka við lækinn.
5. Morgunroði. Þú gullna blóm. Gestur í vöggu.
6. Þrjú kvæði: Þú leist hann. Í draumi. Ef tjaldið fellur.
8. Fjögur kvæði: Vitinn. Vor. Vafurlogar. Spörfuglinn.
9. Hugsað til St. G. St. Skyldleiki.
10. Amundsen. Á vordegi.
12. Á veggnum. Hví skyldi eg hryggjast?
13. Í gullbrúðkaupi. Landnemaljóð.
14. Tvö kvæði: Illagil. Úr goðsögn.
18. Jöklarnir horfnir. Mér söng í huga síblítt lag.
22. Þrjú kvæði: Annar ágúst. Árlangt og ævilangt. Hann heyrði í bernsku.
25. Eg oft þar dvel.

**Arnrún frá Felli**

2. Tvær sögur: Amma mín góð. Allar leiðir enda ekki í Róm.
3. Gesturinn.
4. Fiskur í alla mata.
5. Steina fyrir brauð.
12. Fjöregg.
18. Á fornum stöðvum.

**Percy Aldridge Grainger**

2. Þýðing íslenskrar tungu fyrir Engilsaxa.

**Dr. Björn Bjarnason frá Viðfirði**

2. Kvæði og kvæðabrot.

**Jón Björnsson**

2. Nýjar stefnur.

**Guðrún H. Finnsdóttir**

2. Landskuld.
3. Fýkur í sporin.
4. Að leikslokum.
5. Skriflabúðin.
13. Stríðsskuldir.
17. Rödd hrópandans.
19. Draumur.
20. Traustir máttarviðir.
21. Salt jarðar.
22. Úr þokunni.
23. E. Pauline Johnson (Tekahionwake)

**Séra Magnús Helgason**

3. Landnámabók.
4. Signýjarhárið.

**Guðmundur Friðjónsson**

3. Svanfríður kveður.
4. Út við flæðarmálið.

5. Inni í blámóðu aldanna.
Um varplönd á Íslandi.
6. Þrjár venslakonur.
7. Heilsað vesturfara.
Lauf úr landi minninganna.
8. Í garðshorni.
Tveir Þingeyingar: Þorgils Gjallandi. Sigurbjörn frá Fótaskinni.
9. Frá Íslandi 1927.
10. Höfðingsháttur.
Þelsokkar Þórunnar.
12. Auðlegð íslenskra örnefna.
13. Lífsgleði og karlmenska H. Hafsteins.
15. Minningar frá Möðruvöllum.
19. Hjörtur C. Thordarson.
20. Landnemaljóð.

**Dr. Richard Beck**

3. Á tindum.
8. Hlutdeild Íslands í heimsbókmentunum.
Jón Sigurðsson forseti.
9. Íslenskir vordagar.
Til Fjallkonunnar.
13. Minningar. Um Ólaf helga.
14. Jón skáld Þorláksson. Náttmál.
15. Haustljóð.
Skáldið Þorbjörn Bjarnason.
16. Íslensk fornrit og enskar bókmentir.
17. Brautryðjendur. George P. March.
Skrá yfir rit á ensku um ísl. efni.
Ættbróður heilsað.
18. Aldarfjórðungs afmæli Háskóla Íslands.
19. Próf. Lee M. Hollander og íslensk fræði.
20. Nýárskveðja til Íslands.
Skáldið Jón Runólfsson.
21. Örn Arnarson skáld.
22. Hulda skáldkona.
23. Fræðimaðurinn Halldór Hermannsson. Svanir fljúga.
24. Íslandsvinurinn C. Venn Pilcher.
Skammdegi.
25. Aldarfjórðungsafmæli Þjóðræknisfélagsins. Vetrarsýn.

**Steingrímur Matthíasson**

3. Viðhald þjóðernis Íslendinga í Vesturheimi.
4. Sjúkrahjúkrun og lækningar forfeðra vorra.
5. Í þjóðræknis hugleiðingum vestan hafs.
6. Ferðasögubrot.
7. Gamalt og gott — og ilt.
8. Kraftaverk og andlegar lækningar.
9. Yfir Skeiðará.
10. Barnamorðingjar.
12. Í hripum.
13. Hjá páfa.
15. Ósköp liggur á.
16. Björnstjerne Björnson og faðir minn.
17. Risar og skessur.

**Jón Runólfsson**

Vestigia — eða Sporin.

**Dr. Jóhannes P. Pálsson**

4. Að brúa hafið.
5. Veislan mikla.
6. Gunnbjarnarsker hið nýja.
7. Svarti stóllinn.
9. Stephan G. Stephansson.
23. Fjóluhvammur.
24. Rakka-rökkur.
25. Þegar eg var auðkýfingur.

**Páll S. Pálsson**

5. Vorvísur til Íslands.
12. Í Surtshelli.
13. Kvæðaflokkur: Élja-Grímur. Sumarlok. Maí. Fimm í austur. Að dagslokum.
15. Hvurt?
17. Matthías 100 ára. Þrjú kvæði: Söknuður. Skilnaður. Endurfundir.
19. Hallmundarhraun.
21. Þú söngst mér lag.
22. Við útför einstæðings.
24. Árni Eggertsson.
25. Lokaróðurinn.

**Páll Bjarnason**

5. Afruna máltæki nokkuð útlistuð.
Íslensk-dönsk orðabók.
6. Gömul rúnaljóð og þulur.
Um ný-yrðing.
7. Um orðakver Finns Jónssonar.
Þriggja sýn austur.
8. Um búakviðu og afnám sýslna.
Um fornan framburð œ-s.
9. Um orðtengdafræði íslenska.
10. Um Væringja, Rússa og íslensk fossanöfn á Rússlandi.

**Tómás Benjamínsson**
5. Gull. Auld Lang Syne (á íslensku).

**Séra Eyjólfur J. Melan**
5. Grafreiturinn.

**Páll Ólafsson**
5. Landtakan.
7. Vísur, kvæði og stökur.
8. Stökur til Ragnheiðar.
9. Til Halldórs á Sandbrekku.
13. Á föstudaginn langa.
Gamanvísur: Orðadaður. Meðalvegurinn. Hausa víxl.
15. Vísur: Ýlustráin. Stökur.

**Jósep Schram**
5. Hugsað heim.

**Einar H. Kvaran**
6. Stjórnarskrár afmælið á Íslandi.

**Sigfús Halldórs frá Höfnum**
6. Fimta ársþing (stytt þingbók).
7. Sjötta ársþing (stytt þingbók).
8. Hagur norðanlands við upphaf vesturflutninga.
Sjöunda ársþing (stytt þingbók).

**Jón Kærnested**
6. Heimþrá. Undir íslenskum fána.
16. Jónas A. Sigurðsson.
20. Nótt.

**Gunnar J. Goodmundsson**
6. Ísland.

**Sigurður J. Magnússon**
6. Til ferhendunnar.

**Eggert Jóhannson**
7. Aftur og fram (hugleiðingar).

**Mag. Sigurður Skúlason**
7. Frá Þjórsárdal.
9. Jón biskup Gerreksson.

**Jónas J. Húnfjörð**
7. Alþýðumentun á Íslandi.

**Friðrik Guðmundsson**
8. Hólsfjöll.

**Gróa frá Krossholti**
8. Stökur.

**K. N. Júlíus**
8. Við leiði Magnúsar Brynjólfssonar.

**Aðalsteinn Kristjánsson**
8. John Gunnlaugur Holme.

**Ragnar E. Kvaran**
8. Risar og engisprettur.
10. Vöxtur og vaxtartap.
13. Tólfta ársþing (þingbók).

**Sveinn Björnsson**
9. Ferð mín til Ameríku.

**Eyjólfur J. Víum**
9. Í vöku og svefni.
10. Við sitjum jólin heima.

**Séra Bjarni Sveinsson**
9. Ljóðabréf til Páls Ólafssonar.

**Sigríður Guðmundsdóttir**
9. Þagnarmál.

**Erlendur Guðmundsson**
9. Ævarrskarð.

**Jón Magnússon**
10. Hreiðar heimski.
23. Átthaginn.

**Dr. Stefán Einarsson**
10. Jón Trausti.
12. Nokkrar athugasemdir um skáldsögur Jóns Thoroddsen.
13. Sigurður Nordal.
14. Guðmundur Kamban.
15. Hvað geta Vestur-Íslendingar gert?
16. Íslensku kensla í háskólum Bandaríkjanna.
17. Indriði Einarsson.
18. Frá Guðmundi Friðjónssyni.
19.—20. Shakespeare á Íslandi.
21. Frá þeim yngri.
24. Um ritdóma og rithöfunda.
25. Guðmundur Finnbogason sjötugur.

**Dr. Sigfús Blöndal**
11. Áhrif íslenskra bókmenta erlendis.

**Mag. Einar O. Sveinsson**
11. Íslenskar bókmentir eftir siðaskiftin.

**Dr. Guðmundur Finnbogason**
11. Lífsskoðanir Íslendinga til forna.

**Mag. Pétur Sigurðsson**
11. Sagnaritun Íslendinga.

**Dr. Jón Helgason biskup**
11. Siðaskiftin á Íslandi.

**Prófessor Ólafur Lárusson**
11. Stjórnarskipun og lög lýðveldisins íslenska.

**Dr. Ágúst H. Bjarnason**
11. Nýja Atlantis eða Ísland nútímans.
20. Um Björn Gunnlaugsson.

**Dr. Páll Eggert Ólason**
11. Um endurvakningu íslenskra fræða í Norðurálfunni.

**Stefán Einarsson**
11. Tíunda ársþing (þingbók).

**Jón J. Bíldfell**
12. Alþingishátíðin 1930.
14. Þrettánda ársþing (þingbók).
15. Séra Jónas A. Sigurðssson.
16. Mannskaðaveður.
17. W. H. Paulson.
19. Margt býr í sjónum. Sólardans.
24. Árni Eggertsson. Leifsbúðir í Ameríku.

**Guðm. Grímsson dómari**
12. Skýrsla til ríkisstjóra N. Dakota.

**Séra Friðrik A. Friðriksson**
12. Ellefta ársþing (þingbók).

**W. H. Paulson**
12. Kveðja frá Saskatchewan.
14. Staddur í New York.

**Prófessor Sigurður Nordal**
13. Alþýðuskáldið.
19. Framtíð íslenskrar menningar í Vesturheimi.

**Magnús Sigurðsson á Storð**
13. Hallgerður í Njálu.

**E. S. Guðmundsson**
13. Nellie.

**Dr. G. J. Gíslason**
13. Sumarskóli við háskóla Íslands.
16. Ensk kvæði: Haunts of Greed. Memories. The Grave. The Way.

**Ármann Björnsson**
13. Æolos — vikivaki.
23. Dr. Rögnv. Pétursson.

**Jón Friðfinnsson**
14. Gamla Ísland. Heimhugi. (Sönglög).

**Vísur Jóns á Grindum**
14.

**Unnur Benediktsdóttir (Hulda)**
15. Landnámskonan.
19. John H. Frost. Kvöld í Frakklandi. Dalakonan. Borgarfrúin og Márinn.

**Steinn H. Dofri**
15. Þorb. Bjarnason (endurp. í 19.).

**Árnaðaróskir frá stjórnarvöldum**
15. Íslands og Canada

**Eiríkur Magnússon**
16. Brúðkaupskvæði.

**Séra Jakob Jónsson**
16. Eitt orð úr máli mannshjartans.
18. Ísland á krossgötum.
21. Alþýðuskáldið Valdemar Pálsson.

**O. T. Johnson**
16. Um bygð og óbygð.
17. Frumbygð og fortíð.
18. Þórður.

**Jón Jónsson (Riverton)**
16. Þegar eg var í Viðey fyrir 70 árum.
18. Slysið á Brákarsundi 1872.

**Bergthór E. Johnson**
14. Fimtánda ársþing (þingbók).
17. Landnemaminnisvarðinn á Gimli. Sextánda ársþing (þingbók).

18. Seytjánda ársþing (þingbók).
20. Nítjánda ársþing (þingbók).

**Sveinn Árnason**

17. Nokkur orð um tunglöld og pakta.

**Dr. Sig. Júl. Jóhannesson**

17. Prófessor Watson Kirkconnell.
18. Ávarp Fjallkonunnar.
19. Mesta skáld Vesturheimi (sjá F. S. Cawley).
23. Algeng saga.
24. Friðrik Sveinsson. Merkileg hugsjón.
25. Tuttugasta og fjórða ársþing (þingbók).

**Jón Pálsson**

17. Upphaf borgaralegs hjónabands á Íslandi.

**Vísur Miðhúsa Magnúsar**

17.

**Einar E. Einarsson**

17. Þótt þú langförull legðir (sönglag).

**Margaret A. Björnson**

18. Heima á Fróni. Speculation. Legend. Nú finn eg angan. Til eru fræ.

**Elinborg Lárusdóttir**

18. Vonin.
19. Kvöldvakan á Bjargi.

**Dr. Ragnar Lundborg**

18.—20. Þjóðréttarstaða Íslands.

**Jóhann Briem**

18. Minni Vestur-Íslendinga 1878.
19. Nýjárskvæði 1876-77.

**Jónas Þorbergsson**

19. Brot úr enskum sálmi.

**Prófessor F. Stanton Cawley**

19. Mesta skáld Vesturheims.

**Bjarni Guðmundsson**

19. Heimkomuminni Tómasar skipstjóra Bjarnasonar.

**Séra Sigurður Ólafsson**

20. Einar Jónsson myndhöggvari.
21. Leyndir straumar.
25. Andlegt atgjörvi íslenskrar alþýðu.

**Jónatan Þorsteinsson**

20. Tvær vísur. Tvö kvæði.

**Lord Tweedsmuir**

21. Bréf og mynd.

**J. C. Royle**

21. Iceland (a sonnet).

**Sigurður Jónsson Helluvaði**

21. Til Vestur-Íslendinga.

**Séra Valdimar J. Eylands**

22. Andinn frá Berlín
23. Walter J. Líndal héraðsdómari. 22. ársþing (þingbók).
24. 23. ársþing (þingbók).
25. Heimsskoðun forfeðra vorra.

**Kristian Johnson**

22. Skilnaðarkvæði. Skyr.

**Pierre Naert**

22. Um ýms ósamræmi í Hænsa-Þóris sögu.

**Steingrímur Arason**

22. Landnemar.
24. Landið hennar mömmu.
25. Jón Sigurðsson.

**Árni G. Eylands**

23. Í Noregi er varist.

**Arnljótur B. Olson**

23. Leiðrétting.

**Svanhildur Þorsteinsdóttir**

23. Litlu sporin.

**Dr. Sveinn E. Björnsson**

23. Týsfórnin.
25. Framþróun.

**Kristján Pálssson**
23. Skjöldurinn.
25. Rauðá.

**Ragnar Stefánsson**
23. Þar sem mig dreymdi.
24. Rökkurrof.

**Sigfús B. Benediktsson**
24. Draumur ástarinnar.

**Jakob J. Norman**
24. Hvítbláinn.

**Dr. M. B. Halldórsson**
24. Um meðferð vopna.

## Bækur og Rit

**Send Tímaritinu**

**Saga Íslendinga í Vesturheimi II**, eftir Þorst. Þ. Þorsteinsson. Columbia Press, Winnipeg.

Um bók þessa er ekki nema gott eitt að segja. Hún er útgefendunum, og öllum, sem að henni standa til stórsóma. Pappírinn góður, letur og blek í besta lagi, og bandið sterkt og smekklegt. Prentvillur, þessi erfðasynd okkar prentaranna og prófarkalesaranna, eru víst ekki mjög margar né bagalegar. Þó hefi eg orðið nokkurra var. Á efni og efnismeðferð verður enginn dómur lagður. En bæði er bókin full af fróðleik og framúrskarandi skemtileg aflestrar. Í allri vinsemd vildi eg þó benda höf. á, að reiða sig ekki um of, rannsóknarlaust, á heimildir þær, sem hér hafa verið prentaðar vestra, um staða og sveita og bæjanöfn — og jafnvel ættfærslu sumra manna. Hefi eg oft áður orðið var við rangfærslur úr mínum bygðarlögum heima. Í bókinni eru fáeinar slíkar villur, og hafa vikublöðin hér bent á sumar þeirra. En að minsta kosti eina fleiri hefi eg rekið mig á. Í Múlasýslum er enginn bær, sem heitir Meðalland. Bærinn, sem foreldrar skáldsins J. M. Bjarnasonar komu frá, heitir Meðalnes, og er á vesturbakka Lagarfljóts í Fellum, Norður-Múlasýslu.

Hinn lofsverði áhugi útgefendanna á, að sjá þessu fyrirtæki farborða, ætti að verða næg hvöt til allra Vestur-Íslendinga, sem nokkra rækt vilja leggja við uppruna sinn og þjóðerni, að kaupa bókina og lesa — ekki aðeins fyrsta og annað bindið, heldur og það, er vér eigum í vændum.

★

**The Icelandic Canadian**, I, 1-4 og II, 1-2. Viking Press, Winnipeg.

Þetta rit hinnar enskumælandi sambandsdeildar Þjóðræknisfélagsins, The Icelandic Canadian Club, hefir nú komið út í hálft annað ár, sex hefti als. Í því er margt læsilegt, enda hefir því stöðugt verið að fara fram. Það er óðum að finna og kannast við tilverurétt sinn. Og ef það heldur í réttu horfi framvegis, má búast við, að það geti orðið á borð við The American Scandinavian Review. — Aðalritstj. til þessa hefir verið hin velþekta skáldkona Laura Goodman Salverson. Það fylgir hinum mest tíðkaða enska sið, að hræra auglýsingunum innan um lesmálið, og verður ekki með sanni sagt, að það fari vel í svona litlu riti, sem alt er prentað í einum lit, og hvetur kaupendurna lítt til, að halda því saman.

Eitt mjög lofsvert markmið hefir ritið sett sér, og það er, að hafa tölu á, og myndir af sem flestum íslensku drengjunum og stúlkunum, sem gengið hafa í herþjónustu. Væri óskandi, að það sæi sér fært framvegis, að birta heildarnafnalista þeirra allra, jafnvel þó sleppa verði myndum og ættfærslum, því næsta ólíklegt er, að nokkurt félag taki að sér aftur það risaverk, sem Jóns Sigurðssonar félagið gerði eftir fyrra heimsstríðið 1914-18, að gefa út bók með myndum og ættartölum allra hermannanna.

endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Manitoba, 17. febr. 1943.

S. Jakobson G. L. Jóhannson

**Ársskýrsla skjalavarðar**
yfir árið 1942

Tímarit óseld í Winnipeg:

| | | | |
|---|---|---|---|
| I-XXII. árg. | Hjá skjalav., eint. | 5502 | |
| | Hjá fjármálaritara | 47 | |
| XXIII. árg. | Hjá skjalav. eint. | 143 | |
| | Hjá fjármálaritara | 25 | |
| | | 5717 | |

Tímarit á Íslandi:

Frá I-XXI eru til um 1600 eintök. — XXII. og XIII. árg. allir seldir og talsvert af eldri árg. hefir verið selt. (Sjá skýrslu deildarinnar Frón og fjármálaritara).

Skýrsla yfir XXIII. árg. Tímaritsins:

| | | |
|---|---|---|
| Til heiðursfélaga, rithöfunda o. fl. | 27 | |
| Til umboðssölu á Íslandi | 400 | |
| Til augl. Tímaritsins | 160 | |
| Til fjármálaritara | 870 | |
| Hjá skjalaverði | 143 | |
| | | 1600 |
| Selt og útbýtt af eldri árg. | | 173 |

Þjóðaréttarstaða Íslands (sérprentun). Skýrsla frá 1939 óbreytt. 300

Svipleiftur samtíðarmanna: Skýrsla frá 1940 óbreytt.

289 eintök af innheftri Baldursbrá eru í umsjá B. E. Johnson, ráðsm. Baldursbrár.

Bókasafn:

Deildin Frón hefir umsjón yfir aðalbókasafni félagsins og mun leggja fram skýrslu því viðvíkjandi.

Winnipeg, 17. febr. 1943.

Ó. Pétursson, skjalavörður

Framanritaðan reikning höfum vér endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

—Winnipeg, 17. febrúar 1943.

S. Jakobson G. L. Jóhannson

**Skýrsla fjármálaritara yfir árið 1942**

TEKJUR:

| | |
|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 173.00 |
| Frá deildum og sambandsdeildum | 288.15 |
| Seld Tímarit til utanfélagsm. | 18.95 |
| Frá Íslandi, borgun fyrir 22. árg. | 100.70 |
| Samtals | $ 580.80 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Póstgjöld undir bréf og tímarit | $ 22.75 |
| Ledger Sheets | 2.50 |
| Afhent féhirði | 555.55 |
| Samtals | $ 580.80 |

Guðmann Levy, fjármálaritari

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Manitoba, 17. febr. 1943.

S. Jakobson G. L. Jóhannson

**652 Home St., Winnipeg—1942**

RECEIPTS:

| | |
|---|---|
| Rental of building, 12 months @ $225.00 | $ 2,700.00 |
| Rental arrears ste 2 for December 1941 | 15.00 |
| Rental Frón for library | 60.00 |
| Total | $2,775.00 |

DISBURSEMENTS:

| | | |
|---|---|---|
| Jan. 1, Dr. Balance | | $ 154.12 |
| Taxes 1942 | $403.07 | |
| Mortgage payment | 520.83 | |
| Fuel | 404.69 | |
| Light | 140.74 | |
| Water | 90.35 | |
| Repairs & Supplies | 86.13 | |
| Acct. electric refrig. | 198.00 | |
| Management charges | 120.00 | |
| Workmen's Compensation Board | 21.45 | |
| Icel. National League | 250.00 | |
| | | 2,235.26 |
| | | $2,389.38 |
| Dec. 31, 1942, on hand | | 385.62 |
| Total | | $2,775.00 |

31. des. 1941:
Kostnaður á byggingu,
652 Home St. ....$10,284.65
31. des. 1942:
Óinnfærður kostn
aður frá 1941.... 621.45
$10,906.10
31. des. 1942:
Skuld, fyrsti
veðréttur ............ $4,750.00
31. des. 1942:
Skuld á kæli-
skápum ............. 331.50
5,081.50

Netto ............................................$5,824.60
Ó. Pétursson

Framanritaðan reikning höfum vér endurskoðað og höfum ekki að athuga við hann.
—Winnipeg, Man., 17. febr. 1943.
S. Jakobson G. L. Jóhannson

Var öllum þessum skýrslum vísað til fjármálanefndar samkvæmt tillögu frá Gretti Jóhannssyni studdri af Á. P. Jóhannssyni.

Ritari skýrði frá því að tólf fundir hefðu verið haldnir á árinu. Hann las stutta skýrslu, sem hér birtist:

**Orð frá ritara**

Herra forseti, háttvirti þingheimur.

Eg var að líta yfir lög og stjórnarskrá félagsins nýlega og sá það þar að alls ekki er ætlast til þess að ritari gefi nokkra skýrslu. Svo er ráð fyrir gert að forseti skýri frá öllum málum í skýrslu sinni og væri því önnur skýrsla frá skrifara einungis upptugga eða endurtekning af forsetaskýrslunni.

Aðeins skal eg geta þess að tólf fundir voru haldnir alls á árinu, stýrði forseti þeim öllum að einum undanteknum, sem vara-forseti, séra V. J. Eylands, stýrði í fjarveru hans. Annars voru allir fundirnir prýðilega vel sóttir.

Nefndin hafði ýms málefni til íhugunar og úrslita og var samvinna yfirleitt hin ákjósanlegasta og þakka eg meðnefndarmönnum mínum fyrir góða samvinnu. Þó skal þess getið að í einu eða tveimur málum var eg meirihluta nefndarinnar ósamþykkur.

Eg vil taka það fram að forseti félagsins hefir verið óþreytandi í störfum sínum því til útbreiðslu og framfara. Í fyrsta skifti í sögu félagsins hefir kona átt sæti í nefndinni, er það frú Ingibjörg Jónsson, kona ritstjóra Lögbergs, hefir hún skipað það með dugnaði og áhuga; færi vel á því að það yrði regla félagsins að kjósa framvegis að minsta kosti, tvær konur í stjórnarnefndina.

Sig. Júl. Jóhannesson

Þá kom séra V. J. Eylands með álit og tillögu dagskrárnefndar, og var hún þannig:

1. Þingsetning.
2. Skýrsla forseta og annara embættismanna.
3. Kosning kjörbréfanefndar og dagskrárnefndar.
4. Kveðja frá "Viking Club".
5. Skýrslur frá deildum.
6. Skýrslur milliþinganefnda.
7. Fræðslumál.
8. Fjármál.
9. Samvinnumál.
10. Útgáfumál.
11. Bókasöfn.
12. Minjasafnið.
13. Rithöfundasjóður.
14. Kosning embættismanna.
15. Ný mál.
16. Ólokin störf.

Þessi tillaga var samþykt óbreytt.

Þá kallaði forseti á Jónas Jónasson kennara, forseta félagsins "Viking Club". Kom hann fram og flutti snjalt erindi, eggjaði til starfs og framsóknar, samvinnu og samtaka milli allra skandinavisku þjóðbrotanna, og hvatti til þess sérstaklega að afhenda æskunni hinn norræna arf á þann hátt að hún nyti hans og skildi hann. Var gerður góður rómur að ræðu hans og þakkaði forseti honum í eigin nafni og þingsins fyrir komuna og erindið.

Þá lagði Á. P. Jóhannson til og ritari studdi að fundi sé frestað til 1.45 e. h., var það samþykt.

ANNAR FUNDUR

Annar fundur þingsins var settur kl. 2 e. h. Fundargerð frá fyrra fundi lesin upp og samþykt í einu hljóði.

Forseti las bréf frá Sigurði Helgasyni hljómfræðingi í Seattle, þar sem frá var skýrt að söngfélagið "Harpa" hefði hætt störfum sínum meðan á stríðinu stæði, en héldi samt áfram að heyra til Þjóðræknisfélaginu. Sveinn Thorvaldson lagði til og Mr. Hillmann studdi að þessu bréfi sé veitt móttaka og það skoðað sem skýrsla; tillagan var samþykt.

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

Kjörbréfanefnd lagði fram skýrslu sína; voru fulltrúar mættir frá eftirfarandi deildum:

1. "Brúin" í Selkirk, Man., fulltrúar:
Einar Magnússon, 20 atkvæði.
Mrs. S. G. Ísfeld, 20 atkvæði.
Mrs. J. E. Eiríksson, 20 atkvæði.
2. "Esjan" í Árborg, Man., fulltrúar:
Mrs. María Björnson, 17 atkvæði.
Dr. S. E. Björnson, 17 atkvæði.
Elías Elíasson, 16 atkvæði.
Björn Anderson, 16 atkvæði.
3. "Ísafold", Riverton, Man., fulltrúar:
Árni Brandsson, 18 atkvæði.
4. "Ísland", Brown, Man., fulltrúar:
Jón J. Húnfjörð, 20 atkvæði.
5. "Skjaldborg", Mikley, Man., fullt.:
Mrs. H. W. Sigurgeirson, 20 atkvæði.
6. "Snæfell" Churchbridge, Sask., fullt.:
Thor Marvin, 8 atkvæði.
7. "Fjallkonan", Wynyard, Sask., fullt.:
Þórhallur Bardal, 20 atkvæði.
8. "Báran" Mountain, N. D. Frá þessari deild voru fjórir fulltrúar mættir, sem ekki höfðu umboð undirritað af forseta og skrifara eins og lög gera ráð fyrir; en sökum þess að skrifari deildarinnar hefir tilkynt skrifara félagsins að þeir hafi verið löglega kosnir sem fulltrúar þá leggur nefndin það til að þeir séu viðurkendir með þeim atkvæðum sem hér segir:
W. G. Hillman, 20 atkvæði.
H. T. Hjaltalín, 20 atkvæði.
G. J. Jónasson, 20 atkvæði.
Björn Stefánsson, 20 atkvæði.

Auk framantaldra fulltrúa hafa allir skuldlausir félagar aðalfélagsins og deildarinnar "Frón" atkvæði á þinginu. Skýrslan var undirrituð af Guðmann Levy, Kristínu Johnson og Hjálmari Gíslasyni. Mrs. E. P. Jónsson lagði til og Thor Marvin studdi að skýrsla kjörbréfanefndar sé samþykt; var hún samþykt í einu hljóði.

Þá voru lesnar upp skýrslur deilda. Sveinn Thorvaldson las skýrslu "Ísafoldar"; ritari las skýrslu "Bárunnar" frá Mountain, N. D., og skýrslu "Íslands" frá Brown, sömuleiðis skýrslu "Iðunnar" frá Leslie, Sask. Dr. Sveinn Björnson las skýrslu deildarinnar "Esjan" frá Árborg, Thor Marvin las skýrslu "Snæfells" frá Churchbridge.

Þórhallur Bardal skýrði frá hag "Fjallkonunnar" að Wynyard og lagði Thor Marvin það til en Mrs. Sigurgeirsson studdi að greinagerð hans yrði samþykt sem skýrsla, og var það gert.

Mrs. Sigurgeirsson frá Mikley las skýrslu deildarinnar "Skjaldborg", en Hjálmar Gíslason skýrslu "Fróns" í Winnipeg.

**SKÝRSLUR DEILDA**

**Ársskýrsla deildarinnar "Báran" fyrir árið 1942**

Deildin reyndi á þessu liðna ári, eins og á undanförnum árum að hafa tilsögn í íslenskum söng, bæði á Garðar og Mountain. — Hafði Mr. Ragnar söngstjórn á hendi á báðum stöðum, með aðstoð Miss Kathrynar Arason. Garðar unglingaflokkurinn sýndi meiri áhuga fyrir söngkenslunni, og sótti allar æfingar vel, þegar veikindi ekki hömluðu; sem varð til þess að hægt var að hafa Concert með þeim kór á Garðar 22. ágúst með aðstoð nokkurra sólóista (vocal and instrumental). Mætti þar á meðal nefna einn unglingspilt, 13 ára fiðluleikara, Norman Guðmundsson frá Waukegan, Ill., son Mr. og Mrs. S. W. Guðmundsson sem þar búa. Það voru allir hrifnir af honum. Hann er áreiðanlega efni í listamann á því sviði. — Við þökkum honum fyrir ágætis hjálp við concertið, og vonum að fá að heyra til hans oftar.

— Auðvitað er Báran þakklát öllum þeim sem stuðluðu að því að gera þessa söngsamkomu eins ánægjulega og frekast varð ákosið.

Inntektir af þessari samkomu urðu $51.35, og gjöf frá Garðar kvenfélagi $7.65.

Kostnaður í sambandi við söngkenslu barna og unglinga og áðurnefnda samkomu á Garðar, $59.00, svo útgjöld og inntektir stóðust þar á endum.

Fyrirhugað var að hafa söngskemtun á Mountain seinna að haustinu, með Mountain-flokknum, en af því varð ekki, sökum þess að nokkrar fjölskyldur fóru þá að flytja vestur að hafi, og þeir unglingar sem eftir voru urðu að hjálpa til við kartöfluuppskeru.

Tilsögn var gefin í íslensku um nokkurn tíma, en gekk skrykkjótt, vegna þess hve óregluleg aðsóknin var. — Um 30 innrituðust, en meðal aðsókn nam tæpum helming af þeirri tölu. Mun því varasamt framvegis að vitna í Mountain sem eina af helstu gróðrarstöðum íslenskunnar hér vestra.

Yfir höfuð hefir verið deyfð yfir öllu félagslífi hér vegna stríðsins. — Ungmennin kölluð unnvörpum í herinn og varð því karlakórinn að hætta starfi. Samt lukkaðist þeim að hafa söngsamkomu á Sumardaginn fyrsta, með aðstoð kvenfólksins, og tókst vel. — Þann dag hafði Báran ætlað sér að fá íslensku hreyfimyndirnar hingað en lukkaðist ekki, og var því kórnum gefin eftir dagurinn. — Karlakórinn er nokkurskonar afsprengi Bárunnar, þó leynt fari.

Myndasýningin fór hér fram 27. nóv. eins og áður hefir verið getið í ísl. blöðunum af dr. Richard Beck, og hefi eg engu þar við að bæta, því nógu mikið var sagt þar, myndasýningunni til ágætis.

Við erum samt þakklátir dr. Beck fyrir hans aðstoð og umhyggjusemi, og einnig Mr. Jóni Thórarinssyni frá Garðar, sem stjórnaði film-vélinni.

Hreinn ágóði af þessari samkomu varð $40.25, sem gengur í Rauða Kross sjóðinn samkvæmt ákvörðun deildarinnar.

Deildin hafði aðeins einn almennan fund á árinu, sem var svo illa sóttur að framkv.nefndin áleit að þýðingarlaust væri að kalla menn saman á fleiri fundi, og réði því sínum ráðum. Annríki bænda, vegna mannfæðar, mun hafa verið aðal orsökin til þess að litlu var hægt að sinna utan heimilisanna.

**Skýrslur gjaldkera fyrir árið 1942**

Inntektir:

| | |
|---|---|
| Í sjóði við ársbyrjun | $ 44.88 |
| Allar inntektir á árinu | 203.75 |
| Samtals | $248.63 |

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Öll útgjöld borguð | $156.86 |
| Óborguð útgjöld til Red Cross | 40.25 |
| Í sjóði við árslok | 51.52 |
| Jafnaðarreikningur | $248.63 |

Skýrsla fjármálaritara sýndi: að við ársbyrjun 1942 voru 83 fullgildir meðlimir innritaðir í deildina og þar að auk nokkrir aðstoðarmeðlimir (Social members); að þrír hefðu dáið á árinu, en 10 bæst við; að allir peningar hefðu verið afhentir gjaldkera, sem inn hefðu komið á árinu. Yfirskoðunarmenn höfðu farið yfir framan skráðar skýrslur áður ársfundur var haldinn og ákveðið alt í besta lagi.

Skýrsla bókanefndar sýndi í sjóði við

| | |
|---|---|
| ársbyrjun 1942 | $ 6.00 |
| Tillag frá deildinni | 24.90 |
| Gengismunur á gjaldeyri nefndinni í hag | 1.95 |
| Samanlagðar inntektir | $32.85 |
| Útgjöld fyrir bækur og band, Banka- og póstávísun | $32.10 |
| Í sjóði við árslok | .75 |
| Jafnaðarreikningur | $32.85 |

Þeir meðlimir deildarinnar sem féllu í valinn á umliðnu ári voru: Thorgils Halldórson, Mountain; Mrs. J. K. Einarson, Cavalier og Mrs. Kristjana Sigurðson, Mountain. — Var þeirra minst á

síðasta ársfundi með þakklæti fyrir góðan stuðning, allra þjóðræknismála, meðan þeim varð þess auðið.

Að svo mæltu óskar deildin Báran, Þjóðræknisfélaginu til hamingju og heppilegrar úrlausnar allra þingmála.

Fyrir hönd deildarinnar.

Virðingarfylst,

W. G. Hillman, forseti
Thorl. Thorfinnson, ritari

**Ársskýrsla deildarinnar "Iðunn" að Leslie, Sask.**

Starsfundir deildarinnar hafa verið fáir þetta ár, en þó hafa hin venjulegu störf verið rækt með svipuðum hætti og undanfarið. Keyptar nýjar bækur og útlán bóka verið svipað og að undanförnu.

Þá stóð deildin fyrir sýningu Íslandsmyndarinnar. Var hún sýnd fyrir fullu húsi og tókst ljómandi vel. Veitti hún áhorfendum óblandna ánægju, því þar sáu margir sínar horfnu og fornu slóðir. Deildin vottar þakklæti sitt, þeim, sem hlut áttu að máli, að myndin kom hér vestur um haf.

Á þessu s. l. ári, átti deildin á bak að sjá þremur félagssystkinum: Gabríel Gabríelsson frá Kristnes, tilheyrði deildinni frá stofnun og studdi öll hennar málefni; Jón Guðmundsson frá Elfros, var bókavörður fyrir útibúi bókasafns deildarinnar í Elfros; Mrs. Anna Þorsteinsson frá Leslie (kona Þorst. Þorsteinssonar). Á þeirra heimili voru margir deildarfundir haldnir og hún ætíð boðin og búin til stuðnings við deildina. Deildin minnist þessara góðu samherja með þakklæti fyrir starf þeirra í þjóðræknismálum og vottar ættingjum þeirra innilega samúð og hluttekningu.

Samkvæmt skýrslu féhirðis stendur fjárhagur deildarinnar þannig: Í sjóði frá fyrra ári $23.93. Inntektir á árinu $39.17. Útgjöld $38.75. Í sjóði hjá féhirði um áramót $24.35.

Með bestu kveðju til þingsins.

—Leslie, Sask., 18. febr. 1943.

R. Árnason, ritari

**Ársskýrsla deildarinnar "Ísafold" (1942)**

Ársfundur deildarinnar var haldinn 28. janúar 1942. Í starfsnefnd fyrir árið voru þessir embættismenn kosnir:

Forseti........................Mrs. E. Árnason
Vara-forseti........Mr. G. Sigmundson
Ritari....Mrs. Kristín S. Benedictson (endurk.)
Vara-ritari............Mrs. Anna Árnason
Fjármálaritari............Mr. M. Elíasson
V.-fjármálar.....Mr. Jón Sigvaldason
Skjalavörður........Mr. Árni Brandson

Erindsrekar kosnir til að mæta á þjóðræknisþingi voru þeir Mr. Jón Sigvaldason og Árni Brandson.

Á þessum fundi gengu seytján unglingar í deildina, flest af Laugardagsskólanum, og borgaði velunnari deildarinnar gjöld þeirra.

Alls hafa verið haldnir fjórir starfsnefndar fundir á árinu. Á fundi sem haldin var 19. mars, var ákveðið að reyna að fá íslensku filmuna hingað ofan eftir og sýna hana á skólaloka samkomunni. Fyrsta okt. (1942) bað forseti deildarinnar um lausn frá embætti sökum vanheilsu. Var það tekið gilt og honum þakkað vel unnið starf í undanfarin ár. Stýrði vara-forseti G. Sigmundson, fundum til ársloka.

Laugardagsskólinn byrjaði 11. okt. 1941 og var haldið uppi þangað til í lok maí mánaðar. Aðsókn að skólanum var furðu góð, en aðstaðan er erfið vegna kenslubókaleysis. Er mjög nauðsynlegt að ráðin sé bót á því sem allra fyrst. Annars er ekki hægt að búast við að kenslan geti orðið að tilætluðum notum. Í skólalok var höfð samkoma, sem börnin tóku þátt í, og var íslenska filman einnig sýnd. Var aðsókn framúrskarandi góð. Kennarar skólans s. l. tímabil voru: Mr. S. Thorvaldson, Mr. E. Árnason, Mrs. Pálsson, Mrs. Benedictson, Mr. M. Elíasson, Miss Florence Rockett. Tvö þau síðast nefndu önnuðust söngkenslu.

Um þessi áramót á deildin $32.12 í sjóði. Meðlimatala er fimtíu og sex.

Kristín S. Benedictson, ritari

**Skýrsla deildarinnar "Skjaldborg" í Mikley**

Deild þessi á ekki langa sögu, hún var stofnuð í sumar sem leið þann 28. ágúst, að tilhlutan stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins. Stofnendur voru 40 í alt. Forstöðunefnd deildarinnar hefir haldið 3 fundi og eina samkomu sem gaf af sér $20.00 arð, sem látinn var ganga í hjálparsjóðinn til handa rússnesku þjóðinni.

Deildinni og framkvæmdarnefnd hennar er það ljóst að verndun íslenskunnar sé megin viðfangsefni Þjóðræknisfélagsins og með það fyrir augum leitast hún við að kenna börnunum íslensku í sambandi við sunnudagsskólann. Þetta hefir orðið torveldara vegna skorts á viðeigandi kenslubókum, en vonandi rætist úr því áður en langt um líður. Við vonum að starfsemi deildarinnar leiði til mikillar blessunar í framtíðinni.

Fyrir hönd Skjaldborgar.

—21. febr. 1943.

Virðingarfylst,

Mrs. H. W. S.

**Ársskýrsla deildarinnar "Ísland" Brown, Manitoba**

Árið sem leið hefir ekki verið viðburðaríkt í okkar deild. Höfum haft 5 fundi, sem voru vel sóttir, og eftir ástæðum skemtilegir.

Meðlimatala í aðalfélaginu lík og verið hefir, tuttugu og tveir (22). Þrír meðlimir hafa flutt burt úr bygðinni, en einn nýr bæst í hópinn.

Nokkrir af okkar ungu mönnum eru í hernum, og fleiri á förum. Þetta gerir erfitt að halda félagsskap vel lifandi, og svo eru svo margar kvaðir í sambandi við þessa voðalegu styrjöld.

Sunnudagaskóli vor hefir farið fram eingöngu á íslensku eins og að undanförnu. Ekki hefir um aðra íslenska kenslu verið að ræða, nema þá í heimahúsum.

Með bestu óskum til þingsins í ár.

Virðingarfylst,

Þorsteinn J. Gíslason

**Ársskýrsla deildarinnar "Esjan" Árborg, Manitoba**

Þjóðræknisdeildin "Esjan" í Árborg hefir starfað með líkum hætti og að undanförnu, fundir hafa verið fáir. Kom það aðallega til af óhagstæðri veðráttu og erfiðum vegum þann tíma ársins er fólk út um landsbygðina hefði helst getað sótt fundi annríkis vegna. Einnig er unnið hér mikið í ýmsum félagsskap viðkomandi þessu yfirstandandi stríði.

Inntektir á árinu $170.00. Í sjóði um áramót $38.85.

Bókasafn deildarinnar hefir verið starfrækt eins og að undanförnu og útlán bóka talsvert. Hefir meðlimafjöldi aukist að mun og má þakka það sameiningu lestrarfélagsins við deildina. Skuldlausir meðlimir deildarinnar nú 66 að tölu.

Eitt aðal starf deildarinnar á árinu var starfræksla Laugardagsskólans. Aðsókn lík og að undanförnu. Kennarar skólans voru fjórir. Mrs. Marja Björnson, Miss Hildur Árnason, Mrs. Herdís Eiríksson og Mrs. Lóa Ólafson. Miss María Bjarnason, fimti kennarinn, sá algerlega um söngkensluna. Skólaárið lauk með samkomu er haldin var í maí. Var þar sýndur stuttur leikur, einnig skemtu börnin með framsögn, lestri og söng, tókst þessi samkoma framúrskarandi vel og voru þeir er viðstaddir voru vel ánægðir með framför barnanna.

Tveir meðlimir hafa dáið á árinu: Gestur Oddleifsson í Haga og Guðm. Magnússon frá Framnesi.

Embættismenn deildarinnar kosnir á ársfundi 4. þ. m. voru: Forseti: Mrs. Marja Björnson, V.-forseti V. Jóhannesson; Ritari, Herdís Eiríksson; V.-Ritari, Guðm Einarsson; Fjármálaritari: Dr. Sv. Björnson; Féhirðir, Elías Elíasson.

Herdís Eiríksson, ritari

**Deildin "Snæfell"**

Herra forseti, heiðraða þing,

Það er siður, og máske heimtað, að erindreki beri fram starfskýrslu deildar sinnar þegar hann eða hún kemur á þing. Að mínu áliti eru kvenmenn alveg eins góðir erindrekar sem menn.

Nú er eg kominn skýrslulaus, það er

að segja frá hendi ritara okkar deildar. Það er ekki af leti eða trassaskap að hann fékk mér ekki skýrslu; heldur fyrst og fremst sagðist hann ekki geta útbúið skýrslu þar sem ekkert var starfað á liðnu sumri, og í öðru lagi vegna lasleika nú upp á síðkastið.

Nú til þess að eg standi hér ekki sem einhver strandarglópur, þá reyni eg að gefa einhverja óverulega skýringu á afstöðu okkar í deildinni "Snæfell", nefnilega að ekkert var gert.

Í fyrsta lagi var óvanalega stirð tíð hjá okkur sem víðar. Við bændur vorum í vandræðum að ná saman fóðri vegna votviðris. Þegar góð stund gafst, þá urðum við að hafa okkur alla við. Svo batnaði ekki þegar uppskera og þresking byrjaði. Margir voru að þreskja í snjó. Vinnuhjálp var ómögulegt að fá svo alt gekk svo seint. Svo var talsverður lasleiki og sérstaklega hjá forseta deildarinnar, Birni Hinrikssson, þar sem þau hjón voru með veika dóttur sína hér í Winnipeg um 3 mánaða tíma; þá er það skiljanlegt að hann gat ekki haft hugan á neinu öðru.

Okkur þótti mjög leiðinlegt að geta ekki heimsótt deildina "Iðunn" í Leslie; það var fyllilega ákveðið að fara vestur, en vegna ofangreindra ástæða var okkur það ómögulegt. Við höfðum sannarlega ánægju og skemtun af komu þeirra til okkar eins og erindreki okkar í fyrra hefir eflaust skýrt frá.

Við erum máske sofandi, en alls ekki dauð, þó fá séum og eg treysti því að við vöknum með vorinu og tökum þá til starfa af bestu getu.

Svo að lokum, fyrir hönd deildarinnar "Snæfell", þökkum við forseta Þjóðræknisfélagsins, Dr. Beck, fyrir hans áhuga og hjálpsemi einnig í okkar deild. Eg þakka ykkur fyrir.

Thor Marvin

## Skýrsla ritara "Fróns" — 1942

Deildin hefir starfað með svipuðum hætti og undanfarin ár. Bókasafnið hefir verið starfrækt við allgóða aðsókn. Nýlega hafa verið pantaðar frá Íslandi milli 60—70 nýjar bækur, en vegna erfiðra samgangna tekur alt slíkt lengur en áður var.

Deildin hefir haldið fimm opna skemtifundi, auk "Frónsmótsins", sem haldið var í sambandi við Þjóðræknisþingið. Þessir skemtifundir hafa verið vel sóttir og sumir mjög fjölsóttir. Á þessum fundum hefir skemt margt ungt fólk með söng og hljóðfæraslætti; ræður hafa verið fluttar, þar á meðal af námsfólki frá Íslandi, og þótt alt hin besta skemtun.

"Frónsmótið" fór fram með svipuðum hætti og áður hefir tíðkast; var það afar fjölsótt, svo að til vandræða horfði með húsrúm fyrir mannfjöldann, sem var um 530 manns.

Á tveimur skemtifundum deildarinnar voru tekin samskot til styrktar Rauðakrossinum, námu þau $35.72, og var samþykt að veita fé úr deildarsjóði svo upphæðin yrði $100.00.

Stjórnarnefnd deildarinnar hefir haldið 13 fundi á starfsárinu, og hafa þeir yfirleitt verið vel sóttir af nefndarmönnum. Einn nefndarmanna, Tryggvi Oleson, flutti búferlum úr bænum á miðju starfsárinu, og naut hans því ekki við eftir það.

Þess ber að geta hér, að forsetinn, Soffonías Thorkelsson, vann að því svo að segja einn að útvega fólk til þátttöku í skemtiskrám á öllum skemtifundum, sýndi hann þar sína alþektu þrautseigju og árvekni. Á hann fyrir þetta skildar þakkir og virðing deildarinnar og annara, sem skemtananna nutu.

—Winnipeg, 16. des. 1942.

Ásgeir Guðjohnsen

## Fjármálaskýrsla "Fróns" 1942

Inntektir:

| | |
|---|---|
| 30. nóv. 1941, peningar í sjóði | $ 37.27 |
| Meðlimagjöld í "Fróni" | 180.00 |
| Inntektir á Frónsmóti | 439.40 |
| Fyrir seldar bækur | 4.65 |
| Samskot fyrir Red Cross | 35.72 |
| Tekjur alls | $697.04 |

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Bókavarðar laun | $ 42.00 |
| Fundarsalsleiga | 50.00 |

| | |
|---|---|
| Húsaleiga fyrir bókasafnið | 60.00 |
| Keyptar bækur fyrir | 75.10 |
| Bókband | 14.10 |
| Kostnaður við Frónsmótið | 232.88 |
| Þjóðræknisfélagið | 90.00 |
| Eldsábyrgð á bókasafninu | 8.00 |
| Canadian Red Cross | 100.00 |
| Kvittanabækur fyrir fjárm.r. | 5.94 |
| Innheimtulaun meðlimagjalda | 18.00 |
| Frímerki og bankaávísanir | .75 |
| Mismunur | .27 |
| | $697.04 |

16. des. 1942: Peningar í sjóði á banka ........ $.27

J. Ásgeirsson

Yfirskoðað og rétt fundið, 16. des. 1942.

G. L. Jóhannson J. T. Beck

**Skýrsla Fjármálaritara deildarinnar "Frón"**

| | |
|---|---|
| Innheimt meðlimagjöld upp til 16. des. 1942 | $173.00 |
| Seld Tímarit 23. árg., 7 að tölu | 7.00 |
| Samtals | $180.00 |

Bækur lesnar af meðlimum "Fróns" á árinu, 4.500 að tölu.

Allar þessar skýrslur voru samþyktar.

Ritari las upp bréf, er honum hafði borist frá Magnúsi Snowfield í Seattle; vildi hann gera alla Íslendinga í Vesturheimi að meðlimum félagsins með fullu málfrelsi, en þá eina atkvæðisbæra, sem greiddu dollars ársgjald. J. J. Bíldfell lagði til og Mrs. Salome Backmann studdi, að ritari skrifi honum vingjarnlegt bréf fyrir hönd félagsins og skýri fyrir honum ómöguleika þessarar tillögu; var það samþykt.

Á. P. Jóhannson skýrði frá því að Leifsmyndin væri geymd í góðum og öruggum stað. Hefði listaverkanefnd Washington þingsins þegið myndina fyrir milligöngu Senator Nye, Senator Langdons og Guðmundar Grímssonar dómara. Hefðu verið veittir $10,000.00 til þess að koma henni fyrir til frambúðar.

Séra V. J. Eylands lagði til og Mr. Hillman studdi að komandi stjórnarnefnd sé falið að annast þetta mál ef þar sé einhverju ólokið. Samþykt.

Á. P. Jóhannson vakti máls á því að Jóhanni Magnúsi Bjarnasyni skáldi hefðu að undanförnu verið veittir $25 árlega úr rithöfundasjóði en hann hafði frétt að dregið hefði verið af ellistyrk hans í sambandi við það; vildi hann láta grenslast eftir hvort nokkur fótur væri fyrir þeirri frétt. Sveinn Thorvaldson lagði til og Guðmann Levy studdi að framkvæmdarnefndinni sé falið þetta mál; var það samþykt.

Þegar hér var komið tilkynti J. J. Bíldfell að kaffi væri til sölu í neðri sal hússins; gaf þá forseti fundarhlé í 15 mínútur eftir einhljóða ósk þingsins og fóru flestir niður í kaffisalinn; var fundur settur aftur eftir 30 mínútur.

Sveinn Thorvaldson lagði til og Guðmann Levy studdi að forseti skipi fimm menn í **Útbreiðslunefnd**, var það samþykt og þessir skipaðir í nefndina:

Sveinn Thorvaldson
Marja Björnson
J. J. Bíldfell
G. W. Hillman
Thórh. Bardal

Guðmann Levy lagði til og Mrs. Sigurgeirson studdi að forseti skipi þrjá menn í **Fjármálanefnd**; tillagan samþykt og þessir skipaðir í nefndina:

Á. P. Jóhannson
Ólafur Pétursson
Elías Elíasson

Á. P. Jóhannson lagði til og Mrs. E. P. Jónsson studdi að forseti skipi fimm menn í **Fræðslumálanefnd;** samþykt og þessir skipaðir í nefndina:

Mrs. E. P. Jónsson
Thor Marvin
Mrs. H. W. Sigurgeirson
Björn Anderson
Mrs. J. G. Eiríkson

Á. P. Jóhannson lagði til og J. J. Húnfjörð studdi að forseti skipi fimm menn í **Samvinnumálanefnd**; samþykt og þessir skipaðir:

Á. P. Jóhannson
Séra V. J. Eylands
J. J. Bíldfell
Dr. S. E. Björnson
Grettir Jóhannson

Guðmann Levy lagði til og Mr. Hillman studdi, að forseti skipi þrjá menn í **Útgáfunefnd**; samþykt og þessir skipaðir:

Guðmann Levy
G. J. Jónasson
J. J. Húnfjörð

Á. P. Jóhannson lagði til og Th. Bardal studdi að forseti skipi þrjá menn í **Bókasafnsnefnd**; samþykt og þessir skipaðir í nefndina:

Hjálmar Gíslason
J. J. Bíldfell
Árni Brandson

Fundi frestað til kl. 9.30 næsta dag.

ÞRIÐJI FUNDUR

Þriðju fundur þingsins var settur í Goodtemplarahúsinu kl. 10 f. h. 24. febr. Fundargerð frá síðasta fundi lesin upp og samþykt í einu hljóði.

Ritari las upp skrýslu frá deildinni "Brúin" í Selkirk. Mr. Hillman lagði til og Jónas Jónasson studdi að skýrslan sé meðtekin. Það var samþykt.

Mrs. E. P. Jónsson las upp ítarlega skýrslu um störf laugardagsskólans. Höfðu 40 börn sótt hann síðastliðið ár. Á. P. Jóhannson og Guðmann Levy höfðu látið sér mjög ant um skólann, og stutt hann á ýmsan hátt.

**Skýrsla Laugardagsskóla Þjóðræknisfélagsins**

Síðastliðnu skólaári lauk með samkomu eins og að undanförnu og var hún haldin í Fyrstu lútersku kirkju seint í apríl. Nemendurnir skemtu með framsögn, smáleikjum og körsöng, er Miss Vilborg Eyjólfson hafði æft og var góður rómur gerður að öllum skemtiatriðum.

Því miður urðu hinir ágætu kennarar, Miss Eyjólfson og Mrs. S. E. Sigurdson að láta af kenslu í lok þessa árs vegna annríkis og þökkum við þeim hér með þeirra óeigingjarna starf í þágu skólans á undanförnum árum.

Skólinn hófst aftur í byrjun október og hefir verið starfræktur í Sambandskirkjunni á Banning St.

Eins og að undanförnu eru í skólaráði þeir Ásm. P. Jóhannson, Guðmann Levy og Bergthór E. Johnson. Hafa þeir, en sérstaklega Mr. Jóhannson komið í skólann á hverjum daugardegi og veitt kennurum stuðning og uppörvun. Kennarar eru þessir: John Butler, Mrs. T. Jefferson, Miss V. Jónasson, Mrs. H. Danielsson og Mrs. E. P. Jónsson. Hefir Mrs. Danielsson ekki aðeins haft á hendi íslensku kenslu heldur hefir hún og æft börnin í söng og hefir notið við það aðstoðar Mrs. S. B. Stefánsson sem annast hefir undirspil.

Á þessu ári hafa innritast í alt í skólann, 40 börn, nokkuð færri en síðastl. ár og er það fremur sorglegt að foreldrar skyldu ekki notfæra sér skólann betur því nógir voru kenslukraftar og allur aðbúnaður af hálfu skólaráðs með ágætum. En kennarar höfðu mikla ánægju af því að kenna þeim börnum sem skólann sóttu, okkar ástkæru tungu, því börnin hafa yfirleitt sýnt mikinn áhuga fyrir náminu. Mörg hafa átt langt að fara en hafa samt komið á hverjum laugardegi, þrátt fyrir miklar frosthörkur í vetur. Ein móðir hefir fylgt litlu stúlkunni sinni í skólann á hverjum laugardegi og sýnt þannig frábæra ræktarsemi við málefnið.

Við höfum nú sterkar vonir um það að aðsókn að skólanum aukist næsta ár því þá munum við væntanlega hafa nýjar og ágætar lesbækur til þess að bjóða nemendunum.

—24. febrúar 1943.

Ingibjörg Jónsson

Mr. G. Jónasson lagði til og H. Hjaltalín studdi að skýrslan sé meðtekin með þakklæti. Var það samþykt með lófaklappi.

Mrs. E. P. Jónsson las upp skýrslu fræðslumálanefndar; skýrði hún frá því að með aðstoð þeirra forseta og Á. P. Jóhannsons hefðu fengist að heiman

bækur til kenslu, sem hentugar virtust fyrir það starf. Væri því bætt úr þeirri þörf og von um að skólinn yrði betur sóttur eftir það. Bækurnar voru til sýnis á þinginu til þess að fulltrúar og gestir gætu kynt sér þær. Mr. Sveinn Thorvaldson skýrði frá því hversu miklir erfiðleikar hefðu verið á með kensluna áður en þessar bækur komu og kvaðst hann vænta þess að verkið yrði bæði auðveldara og árangursmeira vegna þeirra. 3,000 eintök höfðu verið pöntuð af bókinni og 2,000 þegar komin.

**Skýrsla milliþinganefndar í fræðslumálum**

Aðal hlutverk fræðslumálanefndarinnar var að útvega lesbækur eða íslensku kenslubækur til þess, að hægt væri að skipuleggja kenslustarfið í Laugardagsskólunum á líkan hátt og lestrarkensla er skipulögð í alþýðuskólunum, en til þess þarf bækur sem eru flokkaðar samkvæmt aldri og íslensku kunnáttu nemendanna.

Nefndin rannsakaði fyrst hvort völ væri hér á hæfum manni til þess að semja slíka bók eða bækur, og var hr. Steingrími Arasyni, hinum nafnkunna kennara, sem nú dvelur í New York, skrifað og hann spurður hvort hann myndi gefa kost á sér til þessa verks ef þess yrði farið á leit. Hann skrifaði nefndinni um hæl og ráðlagði henni að láta þýða á íslensku safn af lesbókum, sem notaðar eru við lestrarkenslu í barnaskólunum í New York og myndi McMillan útgáfufélagið ef til vill gefa þær út á vægu verði.

Dr. Beck skrifaði þegar félaginu og bað það, að senda sýnishorn af þessum bókum ásamt áætlun þess á útgáfukostnaði og varð félagið vel við þeirri beiðni.

Að áliti nefndarinnar voru bækur þessar mjög álitlegar en þrátt fyrir það þótt Steingr. Arason hefði góðfúslega boðist til að þýða þær endurgjaldslaust, þá var kostnaðurinn svo hár, sérstaklega við prentun hinna mörgu litmynda, að nefndin taldi sér ekki fært að ráðast í slíkt fyrirtæki.

Næst var ákveðið að skrifa til Íslands eftir sýnishornum af þeim kenslubókum í íslensku, sem notaðar eru í barnaskólum þar og skrifaði Dr. Beck þeim Jónasi Jónssyni alþingismanni og Árna G. Eylands, forseti Þjóðræknisfélagsins á Íslandi, 9. júní síðastl. þessu viðvíkjandi. Sýnishornið kom í byrjun sept. og annað sýnishorn kom í október og hafði það verið sent til vara ef hitt færist.

Lesbækur þessar eru samdar af þektum barnakennurum á Íslandi, þær eru flokkaðar og myndauðugar. Fræðslumálnefnd leist svo á að þær myndu fullnægja þörfum Vestur-Íslendinga í íslensku kenslu meðal barna og unglinga og var því ákveðið að panta 3,000 eintök af þessum bókum og var pöntunin send Árna G. Eylands, 24. sept. s. l. Vegna hinna erfiðu samgangna við Ísland barst honum pöntunin ekki í hendur fyr en 3. janúar. Hann brá þá strax við og sendi vestur með fyrstu ferð það af upplaginu sem fáanlegt var eða 2,025 hefti, og eru nú þessar bækur komnar til landsins og verða sennilega komnar í hendur kennara íslensku skólanna í byrjun næsta skólaárs.

Fræðslumálanefndin og Þjóðræknisfélagið í heild, stendur í mikilli þakkarskuld við hr. Árna Eylands fyrir drengilegar framkvæmdir af hans hálfu viðvíkjandi útvegun þessara kenslubóka. Ennfremur erum við í þakkarskuld við Eimskipafélag Íslands fyrir góðhug þess að flytja bækurnar endurgjaldslaust frá Reykjavík til Halifax.

—24. febr. 1943.

Ingibjörg Jónsson
Sveinn Thorvaldson
Á. P. Jóhannson
Marja Björnson

Á. P. Jóhannson lagði til og Ólafur Pétursson studdi að málinu sé vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar til frekari framkvæmda. Það var samþykt.

Á. P. Jóhannson las upp skýrslu samvinnumálanefndar. Voru þar á meðal tvær tillögur: Önnur sú, að þingið grenslist eftir því, hvort ekki sé hægt að

koma á útvarpi til Íslands í sambandi við væntanlegar breytingar á stjórnarfari þjóðarinnar á næstkomandi sumri. Hin tillagan var sú að þingið veiti $150 úr sjóði sínum þessu til framkvæmda.

Mr. Jóhannson lýsti því yfir að við hér vestra hefðum verið þiggjendur en þeir heima veitendur á síðastliðnu ári og hvatti hann til þess að ekki væri látið hallast á í þeim skilningi.

**Nefndarálit í samvinnumálum við Ísland**

Líklega hefir ekkert þjóðrækinsþing meðal Vestur-Íslendinga haft jafn margs að minnast, og jafn margt að þakka, að því er áhrærir samvinnumál við Ísland, eins og þetta, hið 24. þing vort sem nú stendur yfir. Þinginu er það ljóst að viðskifti vor við heimaþjóðina á liðnu ári hafa verið næsta einhliða, þannig að vér höfum verið fremur þiggjendur en veitendur. Oss er það ljóst að til þess að um verulega samvinnu geti verið að ræða þurfa viðleitnin og vináttumerkin að vera gagnkvæm. Ber oss því að athuga möguleikana á því að hönd mæti hendi og hugur hug yfir höfin breiðu.

Þingið fagnar hinni stöðugu árvekni sem kemur fram í verkum og ráðstöfunum ýmissra af forvígismönnum heimaþjóðarinnar, bæði í ríkisstjórn Íslands, og meðal félaga og einstakra manna, til að halda sambandinu við oss Vestur-Íslendinga sem best lifandi. Meðal hinna mörgu raunhæfu samvinnu og kærleiksmerkja sem oss hafa borist austan um haf á umliðnu ári, viljum vér sérstaklega þakka frumvarp það til laga sem samþykt var á Alþingi Íslands, 22. maí s. l. um námsstyrk fyrir vesturíslenska stúdenta sem norrænu-nám vilja stunda við Háskóla Íslands; fyrir viðurkenning þá er nokkur af skáldum vorum hafa hlotið; fyrir nafnbætur og heiðursmerki sem ritstjórum vorum hafa verið veitt; fyrir kærkomnar kveðjur á hljómplötum sem hingað hafa verið sendar; fyrir heimsóknir góðra gesta frá ættjörðinni; fyrir útnefning ræðismanna, úr hópi Vestur-Íslendinga, víðsvegar um álfuna; og fyrir aukin viðskifti, og glöggar fréttir sem vér höfum fengið um hagi heimaþjóðarinnar í bréfum og fréttadálkum sem komið hafa til blaða vorra frá skrifstofu Sendiherra Íslands í Washington, D. C.

1. Vér leggjum því til: Sem vott um viðleitni af vorri hálfu, til að túlka gagnkvæman vinarhug, ákveður þetta þing nú hérmeð að kjósa fimm manna nefnd til að íhuga möguleikana á útvarpi frá Winnipeg til Reykjavíkur, eða á sendingu erinda og sönglaga á hljómplötum til Ríkisútvarps Íslands, í tilefni af væntanlegum þáttaskiftum í stjórnarfarssögu þjóðarinnar á þessu ári. Skal nefnd þessari gefið fult umboð til að sjá um ráðstafanir og framkvæmdir í þessu máli.

2. Þingið ákveður ennfremur að veita alt að $150.00 (hundrað og fimtíu dollara) úr sjóði sínum, sem nefndin skal hafa til afnota ef þörf gerist, til framkvæmda þessari ráðstöfun.

Á. P. Jóhannson
V. J. Eylands
J. J. Bíldfell
S. E. Björnson
G. L. Jóhannson

Guðmann Levy lagði til og séra V. J. Eylands studdi að úrslitum þessa máls sé frestað þangað til eftir hádegi, það var samþykt.

Engar fleiri skrýslur voru tilbúnar og engin nefndarálit, var því fundið frestað til kl. 1.30 e. h.

## FJÓRÐI FUNDUR

Fjórði þingfundur var settur kl. 2 e. h. 24. febrúar. Fundargerð þriðja fundar lesin upp og samþykt í einu hljóði.

Forseti las skýrslu samvinnumálanefndar. Ólafur Pétursson lagði til og Björn Stefánsson studdi að hún sé rædd lið fyrir lið. Samþykt. Ritari lagði til að fimm menn séu kosnir í samvinnumálanefnd, eins og skýrslan fer fram á. H. Hjaltalín studdi. Samþykt. Á. P. Jóhannson lagði til og Sveinn Thorvaldson studdi að ekki yrði lengra farið með þessa skýrslu fyr en fjárhagsnefnd hefði athugað hana. Samþykt.

Þá kom á þingið Árni G. lögmaður Eggertson, las hann upp kveðju og heillaósk til þingsins frá "The Icelandic Canadian Club" og lagði þar næst fram skýrslu þeirrar deildar. Var skýrslan á ensku.

### Annual Report of the Icelandic Canadian Club

The Icelandic Canadian Club has a membership of some 110 of which a goodly portion are serving in His Majesty's Forces which accounts for the fact that our athletic and social activities have been somewhat curtailed during the past year. However, we had our annual picnic which was held at City Park one Sunday afternoon last July and was enjoyed by a large turnout of our members. Much thanks is owing to our active committee headed by Mr. W. S. Jónasson.

We have monthly meetings during the winter months commencing in October and continuing until May when activities cease for the summer months. We have had these meetings on the second Sunday evening of each month in the Antique Tea Rooms in the Enderton Building, and we invite you to join us at any time. There is always good entertainment and much business to transact.

Although many of our members are not able to join in our activities we feel that much progress has been made during the past year of which the chief highlights are the publication of our quarterly magazine, "The Icelandic Canadian" and the change of name in our organization from "Junior Icelandic League" to "Icelandic Canadian Club." A change from adolescence to manhood.

In the establishment and publication of "The Icelandic Canadian" we feel that a major step has been taken by our organiation, and its reception by the public has far exceeded our expectations. We have been very fortunate in the composition of our Editorial Board and business management, which are as follows:

1. Editor-in-Chief, Laura Goodman Salverson
2. Associate Editor, Stefan Hansen
3. Associate Editor, Helen Sigurdson
4. Associate Editor, Judge W. J. Lindal
5. Associate Editor, J. G. Johannson
6. Circulation Manager, Hjálmur F. Danielson
7. Business Manager, Miss Grace Reykdal
8. War Effort Manager, G. Finnbogason
9. Social Correspondent, Mrs. H. J. Lindal

In additon we have arranged for the services in an unofficial capacity of Dr. Richard Beck and Dr. S. J. Johannesson.

If you have not had an opportunity of reading our magazine, I would point out that its policy consists of five points which are as follows:

1. To asist in making the things of value in our Icelandic heritage a living part of ourselves as Canadian citizens and thus improve the quality of our contribution to the distinctively Canadian pattern.

2. To provide an instrument by which the children of the ever increasing mixed marriages may be reached, and through which we would seek to instil in them a better knowledge and a keener appreciation of our heritage.

3. To provide a means whereby Canadians of Icelandic extraction, pure or mixed, can become better acquainted with each other and thus strengthen the common bond of the past which in itself will strengthen the common bond of the future in the larger Canadian scene.

4. To stimulate greater effort by making known to our readers the contributions of Icelandic Canadians to the highest and best types of citizenship.

5. To place before the people af Canada and particularly the other ethnic groups our interpretation of the position we should take as Canadian citizens, and thus contribute to Canadian unity by helping to form a common basis of approach.

I am advised by the Circulation Manager that we have a circulation of 700 spread all over the North American continent although we have only published edition No. 2 of the first volume. From the tributes in the English and Icelandic press as well as from our Prime Minister and people of high repute and distinction both in Canada and the United States of America, the publication committee of the Icelandic Canadian may well be proud of its efforts and are to be congratulated on their success. We have been very fortunate in having as Editor-in-Chief a person of the high literary ability and renown of Laura Goodman Salverson. May the good work continue.

Arni G. Eggertson,
President

Sveinn Thorvaldson lagði til og Dr. S. E. Björnson studdi að þessari skýrslu sé veitt móttaka. Samþykt. Mr. Eggertson er fulltrúi þingsins frá enskumælandi deildinni.

Þá kom fram útgáfunefndar skýrsla. Lagði hún til að ritið yrði gefið út í sama formi og áður og að stjórnarnefndin annist um útvegun ritstjóra og prentunar. Samþykt. Nefndin tók það þó fram að ritið skyldi að einhverju leyti fullkomnara en vant væri sökum þess að næsta ár er fjórðungsaldar afmæli félagsins; ennfremur lagði hún það til að Mrs. P. S. Pálsson sé þakkaður sá mikli dugnaður sem hún hefði sýnt við auglýsingasöfnunina. Var heimtað að hún stæði á fætur, gerði hún það og skýrði frá því að hún hefði fengið $2,146.00 virði af auglýsingum. Kvað hún það auðfundið hjá auglýsendum hversu vel Íslendingar væru kyntir hér í bænum.

**Nefndarálit í útgáfumálum**

Nefndin leggur til:

1. Að Tímaritið sé gefið út á næsta ári í svipaðri stærð og að undanförnu.

2. Að framkvæmdarnefndinni sé falið að sjá um að 25 ára afmælis Þjóðræknisfélagsins sé minst í næsta Tímariti á viðeigandi hátt.

3. Að framkvæmdarnefndinni sé falið að ráða ritstjóra, og sjá að öðru leyti um útgáfu þess.

4. Að þingið þakki auglýsingasafnanda, Mrs. P .S. Pálsson, fyrir vel unnið starf við söfnun auglýsinga.

—24. febr. 1942.

Guðmann Levy
G. J. Jónasson
John J. Húnfjörð

Séra Eylands lagði til og J. J. Bíldfell studdi að skýrsla útgáfunefndar sé afgreidd lið fyrir lið. Samþykt. Eftir alllangar umræður var hún samþykt í heild sinni samkvæmt tillögu frá J. J. Húnfjörð studdri af Mr. Hillman.

Þá gaf ritari, munnlega, stutta skýrslu um Sögumálið. Séra V. J. Eylands lagði til og Mr. Hillman studdi að skýrslan sé meðtekin. Samþykt.

Þá las ritari tilboð frá tíu mönnum, sem buðust til þess að taka að sér útgáfu sögunnar. Séra V. J. Eylands flutti ræðu málinu til skýringar og lagði það til að því yrði vísað til væntanlegrar framkvæmdarnefndar og sögunefndar sameiginlega. Samþykt.

Þá lagði séra Eylands til og Sveinn Thorvaldson studdi að kosin sé fimm manna Sögunefnd. Ritari gerði þá breytingartillögu að nefndin sé skipuð níu manns eins og verið hefði. Breytingartillagan samþykt og nefndin endurkosin eins og hún var.

Þá var aftur tekin fyrir skýrsla samvinnumálanefndar. Var þar lagt til að samskota yrði leitað til þess að standast kostnað við útvarpið til Íslands, ef til þess kæmi. Guðmann Levy lagði til og Grettir L. Jóhannson studdi að þetta fé sé greitt úr félagssjóði. Samþykt. Séra V. J. Eylands lagði til og Mrs. E. P. Jónsson studdi að skýrslan sé samþykt í heild sinni. Hún var samþykt. Þá var kosin fimm manna nefnd til samvinnumála, samkvæmt tillögu frá Guðmann Levy og séra V. J. Eylands. Þessir voru kosnir:

Séra V. J. Eylands
Dr. Richard Beck
Grettir L. Jóhannson
Séra Philip M. Pétursson
Gísli Jónsson.

Fundi slitið til kl. 10 f. h. 25. febr.

FIMTI FUNDUR

Fimti þingfundur var settur kl. 10. f. h. 25. febr. í Goodtemplarahúsinu.

Fundargerð fjórða fundar lesin upp og samþykt í einu hljóði.

Í fundarbyrjun bárust þinginu þær fréttir að séra Guðmundur Árnason að Lundar hefði látist um nóttina. Óskaði forseti þess að þingheimur stæði á fætur og mintist hins látna vinar og starfsbróður í djúpri þögn. Þetta var gert. J. J. Bíldfell lagði til og Á. P. Jóhannson studdi að þingið kjósi þriggja manna nefnd til þess að semja og senda samúðarskeyti eða bréf til ekkju og venslafólks séra Guðmundar. Var tillagan samþykt og þessir kosnir: Forseti, varaforseti og ritari.

Mrs. G. Árnason and family,
Lundar, Man.

The Icelandic National League assembled in annual convention extends to you deepfelt sympathy in your bereavement. We mourn the loss of our esteemed and highly valued fellow member of our organization.

The Icelandic National League,
Richard Beck, President
S. J. Jóhannesson, Sec.
V. J. Eylands, Vice-Pres.

Þá var nefndarálit útbreiðslunefndar lesið af Sveini Thorvaldsyni:

**Útbreiðslunefndarálit**

Við undirrituð, sem útnefnd vorum til þess að semja álit til athugunar á þinginu um útbreiðslumál, leyfum okkur að leggja til:

1. Að þingið lýsi ánægju sinni yfir miklu og velunnu starfi, sem forseti og framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins hefir unnið á síðastliðnu ári, með stofnun deilda, ritgerðum og stuðningi kenslumála. Ennfremur endurtekur þingið þakklæti sitt til íslensku blaðanna fyrir veitta velvild og stuðning þjóðræknismála á árinu.

2. Að þingið lýsi ánægju sinni yfir vaxandi áhuga fyrir íslenskukenslu á árinu, og felur væntanlegri stjórnarnefnd að gangast fyrir því að sú kensla sé aukin og efld í sem allra flestum bygðum Íslendinga. Ánægjulegt sé að aðstæður hafi mikið batnað með því að fengist hafa nothæfar kenslubækur frá Íslandi, sem nefndin leggur til að laugardagsskólum séu veittar að láni endurgjaldslaust, eftir þörfum.

3. Samkvæmt skýrslum, sem komið hafa fram frá nokkrum deildum á þessu þingi, er það ljóst, að starfsemin hefir farið þverrandi hjá allmörgum þeirra, og finst nefndinni að þar sé um svo alvarlegt atriði að ræða, að fram hjá því megi ekki ganga. Leggur nefndin því til, að væntanleg stjórnarnefnd sjái um að eins hæfur maður og völ er á, verði sendur þeim deildum til aðstoðar og uppörfunar sem hér eiga hlut að máli.

4. Einnig leggur nefndin til að væntanlegri stjórnarnefnd sé falið að leggja sérstaka áherslu á stofnun nýrra deilda.

Winnipeg, 23. febrúar 1943.

Sveinn Thorvaldson
Marja Björnson
J. J. Bíldfell
W. G. Hillman
Th. Bardal

H. Hjaltalín lagði til og sr. P. M. Pétursson studdi að nefndarálitið sé tekið fyrir lið fyrir lið. Samþykt. Þessir sömu menn lögðu til að fyrsti liður sé samþyktur breytingalaus. Samþykt. Á. P. Jóhannson lagði til og Mrs. E. P. Jónsson studdi að kenslubækurnar að heiman séu lánaðar fyrir örlítið gjald og málinu sé að öðru leyti vísað til komandi stjórnarnefndar. Sveinn Thorvaldson vildi láta lána bækurnar endurgjaldslaust og talaði fagurlega í því sambandi. Þriðji liður var loks samþyktur óbreyttur. Þess var getið í fjórða lið að félagslíf hefði víða verið dauft eftir skýrslum að dæma. Er það lagt til að komandi stjórnarnefnd útvegi góðan og hæfan mann til þess að lífga deildirnar og aðstoða þær. Sömuleiðis að stofna nýjar deildir þar sem því verði við komið.

Mrs. S. E. Björnson lagði til og Elías Elíasson studdi, að þessi liður sé samþyktur óbreyttur. Samþykt.

Sveinn Thorvaldson lagði til og G. J. Jónasson studdi að nefndarálitið sé

